# Bæna-Kver,

innihaldandi

## Tvennar Viku kvøld-bænir.
## Sjø Daglegar andvarpanir

útaf

## Sjø ordum Kristi á krossinum

og

## Hátída bænir.




Reykjavik.

Prentad af Helga Helgasyni.

1845.



# I.

# Viku Kvøld-bænir.

## Sunnudags Kvøldbæn.

Vertu hjá ofs, Herra! því ad kvølda tekur og á daginn lídur! O þú lifandi, almáttugi Gud! hvørsu ógrípanleg eru þín verk? hvad ómælileg er þín gjædska, sem þú audsýnir mannanna børnum? segja megum vér af þinni nád og sannleika elsku og miskunsemi, þar þú umlidinn dag hefur, sýnt ofs svo margt gott til lífs og sálar; þú hefur mettad sálir vorar med lífsins braudi, og géfid ofs ad drekka af þeirri lifandi uppsprettu. Þitt ord hefur verid vorum munni sætara enn hunáng og hunángseimur! Æ lát þitt ord alla vora daga vera ljós á vorum vegum, svo vér eptir því framgaungum, þá munum vér ei rasa né missa þína nád. Þú hefur líka verid vor hjálpari, vor hjástod í líkamlegann máta, svo vér høfum nú nád ad lifa med heilsu, fram á þetta kvøld; vér erum ekki verdir allrar þeirr-

ar miskunar, sem þú hefur audsýnt oss. Þegar vorir limir leggja sig nú til hvíldar, svo kom, vor vernd! oss til hlidar, haf gát á oss, og innlæs oss þinni varatekt; lát oss sífeldlega vera ljós í Drottni, og ekkért samfélag hafa vid ófrjóssøm verk myrkranna; lát þitt ord, sem vér høfum heyrt og lært, þróast í oss hér eptir, sem heilagt sædi, hvørs ávexti sjá megi á voru líferni, í rádvendni, Guds ótta, í því ad vér frá heiminum deyum, en géfum oss alla þér; vertu vor hlífd og skuggi mót øllum hita og freistíngum, og móti Satans eldlegu pílum. Drottinn er vort ljós og hjálpraedi; hvad skyldum vér óttast? Drottinn er styrkur vors lífs; fyrir hvørju skyldum vér skélfast? snú eldi, vatnsvoda og allri ólukku frá oss og þeim oss vidkoma, og géf øllum sorgbitnum, sjúkum og deyandi, ad njóta þinnar ríkuglegu nádar, þá skal á morgun allur vor munnur, vera fullur af þinni lofgjørd, og vér viljum framsegja, hvad gott þú hefur gjørt oss til lífs og sálar. Fyrirgéf oss, høfum vér ekki svo vandlega þjónþér í dag, sem vér áttum ad gjøra, og tak ekki þessvegna þína nád frá oss; lát, med þessari nýu viku, allt verda nýtt á oss, géf oss nýa elsku og laungun til þín, nýan vilja til ad

þjóna þér og hlýda. Lát oss þær syndir, sem vér á lidinni viku frømdum, fordast og flýa, svo allir sjái, ad vér høfum þenna sunnudag ekki til ónýtis lifad. Hjálp oss sífeldt ad athuga, ad vér høfum eina ódaudlega sál, uppá þad, vér berum meiri umhyggju fyrir vorum sálum, enn vorum líkømum. Vér viljum nú, vor Gud! leggjast í vorar hvílur, vér minnumst af því vorra legstada, í hvørjum vér hvíla munum, þángad til þú á þeim gledilegasta sídasta degi munt uppvekja oss til eilífs lífs; svo fari þá vorir líkamir í sín herbergi til hvíldar, enn sálir vorar í undir Jesú, Amen.

## Versid.

Frá þér, Drottinn! ver eg villist, vel og sætt eg hvíli' í þér, enn þótt svefni augun fyllist, ædstu þánka vek í mér, minn lát anda eins vid blund, í þér vaka hvørja stund, þar til dagur ljós fær lýsa, og lénast tími upp ad rísa.

## Mánudags Kvøldbæn.

Vér liggjum og sofum med øllu í fridi, því þú, Drottinn! alleina hjálpar oss, þad vér búum óttalausir. O þú eilífi og almáttugi Gud! þessir eru vorir kvøldþánkar, er vér viljum

leggja oss til hvíldar; ó! hvørsu fáum vér nógsamlega þakkad þér, ad þú hefur leidt oss út og inn, svo vér høfum ekki fótum drepid vid nokkrum steini. Þú hefir mettad oss og drykkjad, þú hefir huggad oss og endurnært, þitt tillit hefur vardveitt vorn andardrátt, og fyrir þig og þína nád lifum vér enn, allt á þennan dag. Allir þessir og adrir velgjørníngar eru ekki annad enn raddir, sem hvetja oss til þinnar lofgjørdar, fyrir því lofi Drottinn, sálir vorar, og allt hvad í oss er, hans heilaga nafn. Lofi Drottinn, vorar sálir, og gleimi ekki hvad gott hann hefur gjørt þeim! fyrirgéf oss, Drottinn! fyrirgéf oss af nád! høfum vér í dag haft vors Endurlausnara dæmi fyrir augunum, vikid frá sjónum oss þínum bodum, enn þarámóti lifad eptir heiminum, og med heiminum, og géfid lausann taum vorum gyrndum. Værir þú ekki þolinmódur Gud, já, Fadir miskunsemdanna, þá lifdum vér ekki framar, því eingin manneskja gæti svo lengi þolad, sem þú hefur unnt oss tíma til ydrunar og apturhvarfs. Æ Drottinn! vér játum oss seka, og gjørum ydran í dupti og øsku; dagurinn er nú lidinn; afmá þú líka vorar syndir sem þoku, og minnstu

þeirra aldrei meir. Vér lofum þér því hérmed, hjartans einlæglega, ad vér viljum ástunda þér ad þjóna, og laga vora breytni eptir þínu ordi; vardveit oss á þessari nóttu, fyrir allri ásókn óvinarins, fyrir ólukku og øllu illu; apturlát sjálfur, ó Jesú! vor aúgu, þá vér útaf sofnum, innþrykk þá um leid þína blódugu mynd vorum hjørtum, svo vér gleimum þér ekki.

Í þér vaki øndin mín, æ mig dreymi, Gud! til þín, ad sé eg þinn og þér tilheyri, þó mig svefninn nidurreiri.

Vertu vort ljós í myrkrinu, vor hjálpari í naudunum! vor hjørtu minna oss á þitt ord: þér skulud míns andlitis leita; því leitum vér líka, Drottinn, þíns andlitis; vér vitum hvurgi ad snúa oss nema til þín, ó þú almáttugi Gud! Vor Fadir er hjá oss, hví skyldum vér óttast, þótt vér alleinir lægjum og svæfum? vor Jesús, ljós vorra sálna, er hjá oss, þó ljós vorra augna byrgist; sá heilagi Andi er hjá oss, hann vidheldur þeim vitnisburdi í vorum hjørtum, ad vér séum Guds børn, þó vér sjálfir vitum ekkért til vor. Séum vér þá innlæstir vernd hins þríeina Guds, svo

sofum vér óhultir sem Jakob, vér sofum ótta-lausir eins og barn vid sinnar módur brjóst, vér sofum verndadir, sem Pétur. Amen.

## Versid:

Hugsadu til mín, gódi Gud! þó gjörist dimmt af nótt, verndi mig hér þín hábleſsud, heilagra Engla gnótt; augun svo lyk eg ørmøgn-ud, og sofna gladur skjótt; en augu þín vaka ó-syfjud, af því verdur mér rótt.

## Þridjudags Kvøldbæn.

Drottinn er med oss, því óttumst vér ekki, hvad géta oss mennirnir gjørt? Svo tølum vér nú, ó þú nádugi og elskuríki Gud! á þessari kvøldstundu, og segjum þér audmjúkar þakkir, ad þú hefur látid oss aflifa þennann dag, undir þinni fødurligri vernd, elskuríkri forsorgun, nádugri handleidslu og ríkuglegri bleſsan. Drottinn! þín gjædska er stór, og þín miskunsemi hefur engann enda! Drottinn er nálægur øllum, sem hann ákalla, øllum sem hann af hjarta ákalla; hann heyrir hvad þeir gudhræddu gyrnast, hann heyrir þeirra hróp og hjálpar þeim. Æ vor Gud! hvad skjótt líd-ur þó einn dagur? eins og ør sé skotid, svo fljótt lída vor ár; kénn oss því, ad þad

muni hljóta ad verda úti med oss, og vort líf hafa eitt takmark, og vér hljótum hédan ad fara; sjá, vorir dagar eru ein þverhandar breidd fyrir þér, og vort líf er sem ekkért fyrir þér; vér hljótum allir ad opinberast fyrir dómstóli Kristí, uppá þad, ad hvøreinn medtaki, eptir því, sem hann hefir adhafst í líkamans lífi, sé þad íllt eda gott. Fyrir því dæmum vér oss sjálfa og spyrjum, hvør einn fyrir sig: mín sál! hvørnig hefir þú brúkad daginn í dag? hefur þú nokkud gott gjørt? hefur þú verid í dag Gudi sameinud, edur hefur þú styggt hann frá þér, med ásetníngs og vitanlegum syndum? Minn munnur! hvad hefur þú í dag látid af þér heyra? hefur þú talad þad, sem skikkanligt, skírlíft og sidsamligt er? hefur þú útbreidt lofgjørd Guds! eda hefur þín ræda verid hégómi og skammarlig ord? hvørt hafid þér geingid? þér fætur! hvad hafid þér gjørt og unnid? þér hendur! hvad hafid þid heyrt? þid eyru! eptir hvørju hafid þid skignst? þid augu! hvad hafa vor hjørtu í dag gyrnst, umhugsad og eptirsókt? Æ vor Gud! ef vér skyldum svara uppá øll þessi spursmál: ó! hvørsu mundum vér þá standast? Æ Drottinn! burttak med

þeim burtvíkjandi degi, vorar yfirtrodslur; ó Jesu! afmá vorar syndir med þínu heilaga blódi; ó þú heilagi Andi! fullvissa oss um fyrirgéfníngu allra vorra synda ádur enn vér sofnum, svo vér, ef þessi nótt á ad verda vor sídasta, ekki fortøpumst. Séum vér þá, þríeini Gud! kvittir sagdir vid sektir vorar, þá sofum vér med fridi, og fordumst á morgun, med meiri varúd, allt þad sem þér er til módgunar. Vor Fadir! þín elska breidist á oss og vora, ó Jesú! í þínum undum hvílum vér hægt og rósamlega; ó þú heilagi Andi! tilbú þú þad seinasta andvarp í vorum hjørtum, ádur enn vér útaf sofnum, med hvørju vér felum vorn anda í Guds hendur. Amen!

## Versid.

Þó hafi' eg, Fadir! frá þér runnid, flý eg aptur samt til þín; Son þinn hefur sátt mér unnid, med sinni kvøl og daudans pín; játa eg brotin margføld mest, en miskun þín og nádin best, meir enn syndin miklu vega, vid mig sem lodir æfinlega.

## Midvikudags Kvøldbæn.

Vér liggjum og sofum og vøknum, því Drottinn vidheldur oss. O þú heilagi, gjædskuríki

og alleina vísi Guð! þú hefur nú látið oss um liðinn dag aptur fá að reyna, að þú ert sá réttláti Faðir yfir allt, sem børn kallast á himni og jørðu; þú hefir eptir þinni óendanlegri gjæðsku fyrir oss séð, svo vér høfum engann skort haft á neinu góðu; æ Drottinn! vér erum minni allri þeirri gjæðsku og trúfesti, er þú hefur auðsýnt oss. Hvørsu skulum vér Drottni endurgjalda allt það góða, sem hann daglega gjørir oss, oss, sem einúngis erum dupt og aska! Fyrirlít ekki það auðmjúka lofgjørðar offur, sem vér færum þér á þessari kvøldstundu, og álít oss framvegis í náð. Fyrirgéf oss, ó þú náðugi Guð! það sem vér høfum á þessum degi móti þér brotið, með hugsunum, orðum og verkum! hjálp, að vér ásamt vorum klæðum, afklæðumst øllum vondum vana, íllsku og ránglæti, svo vér á morgun og alla vora daga høtum það og forðumst; að vér afleggjum, eptir hinni fyrri breytni, hinn gamla manninn, og íklæðumst honum aldrei meir. Lát oss á þessari tilkomandi nóttu, eins og alla vora vandabundna og heimilis menn, vært og rósamlega sofa undir vernd þinnar náðar. Sólin byrgir sig, en lát, ó Jesú! sól réttlætisins, þinn

ljóma, alltíd lýsa í vorum hjørtum; uppfyll oss í svefninum med gódum hræríngum, uppá þad, þegar vér vøknum, sé þitt nafn og þín minníng alltíd í vorum hjørtum, ad vér, þá vér vøkum í vorum rúmum, hugsum og tølum um þína gjædsku, trúfesti og nádugu handleidslu, og þar med burtdrífum alla óþarflega áhyggju og syndsamliga þánka. Endurnýa í svefninum vora krapta, svo vér daginn lítum gladir og frískir. Vaki einn hyrdir yfir sinni hjørd, svo lát oss, til lífs og sálar, þinni hyrdirs trúfesti befalada vera. En viljir þú til reynslu vorrar trúar, þolinmædis og vonar, leifa einhvørju um dag og nótt, mótdrægu yfir oss ad koma, þá minnst, vor Gud! þess, ad vér erum þíu børn, ad vér megnum ekkért án þín, og ad þad sé þitt, sem vors Fødurs, ad senda oss hjálp, og frelsa, frá þínum helgidómi. Gled þú oss í hryggdinni, endurnær þú oss í eymdinni, þegar vér erum yfirgéfnir, þá tak þú oss hjartanliga ad þér. Lát þína allstadar nálægd, og þitt alltsjáandi auga, halda oss dag og nótt frá syndunum. Vid adkomu næturinnar, hefjum vér nú vor augu upp til fjallanna, hvadan oss kémur

hjálpin; vor hjálp kémur frá Drottni, sem skapad hefur himin og jörd. Amen!

## Versid.

Minnar dagur einn er æfi, aptur frá mér burtvikinn, Drottinn! hjálp, eg gaum ad gjæfi, hvört gjördi' eg bestann vilja þinn, sýn mér hitt á sama veg, sem adhafdist vondslegt eg, svo kvöldid þetta helgad heiti, hærstum þér ad öllu leiti.

## Fimtudags, Kvöldbæn.

Þegar vér leggjum oss til hvíldar, þenkjum vér til þín, og þegar vér vöknum, þá tölum vér um þig, ó þú alleina ríki og elskuríki Gud og Fadir! hér komum vér aptur, gjæddir og nádadir af þér, med mörgum velgjördum, á þessari kvöldstundu, med þakklátum hjörtum, framm fyrir þitt auglit. O! hvad nádarsamlega hefur þú oss álitid, og miskunad þig yfir oss, sem einn fadir yfir sín börn, svo vér án skada höfum nád ad lifa allt á þennann kvöldtíma; þitt lánglundargéd hefur vægt oss, svo þú hefur ekki hegnt oss eptir vorri verdskuldan. Æ! fyrirgéf oss allar yfirtrodslur, med hvörjum vér höfum módgad þig, heimuglega edur opinberlega. Vér hefdum átt ad vera

sterkari í því ad strída móti syndinni, kapp-samari í því góda, andaktugri í bæninni, vark-árari í rædunni, gudhræddari í breytninni; en hvør kann ad skilja hvad opt hann fellur? Fyr-irgéf einnig vora heimuglega bresti. Lát oss nú héreptir med allri ástundan fordast þad, med hvørju vér høfum stiggt þig á þessum degi; séu vorar syndir miklar, þá er þín miskunsemi miklu meiri; værir þú ekki svo miskunsamur Gud, Drottinn! hvør mundi þá lifa? Vér leggjum oss nú til hvíldar, vor Gud, æ loka þú sjálfur dyrnar eptir oss, eins og dyrum Nóa arkar, svo engin vøtn hørmúnganna nái ad drekkja oss; lát þína heiløgu Engla taka oss í vøktun og forsvar, svo hvørki sýnilegir né ósýnilegir óvinir hindri vora hvíld og ró-semi. Lát oss einnig, þegar vér leggjum oss í vor hvílurúm, til þess hugsa, hvørsu vér á sínum tíma munum med jørdu huldir, en á efsta degi aptur uppvaktir verda. Lát oss alla daga svo lifa og útenda, ad vér megum hugga oss vid nádugann Gud og góda samvitsku, uppá þad, vér megum vidbúnir vera, á hvørri stundu sem þú kémur oss heim ad flitja. Líka sem vér liggjum og sofum, og drøgum þó samt and-ann, ó Jesú! svo vertú oss einnig í svefnin-

um sameinadur. O þríeini Gud! undir þinni vernd og hlífdarskyldi, gétur engin naud né daudi gjört oss mein edur skada. Þín elska og vernd, ó Fadir! þínar undir, ó Jesú! þín hjástod, ó þú verdugi heilagi Andi! eru þær vagnborgir, í hvörjum vér med værd sofum og hvílum óhultir, fyrir því má Satan flýa og fjær vera. Lát líka alla vera undir þinni vernd, einnig alla auma og naudstadda. Styrk í svefninum vora krapta, og lát oss, eptir velþóknun, aptur fá á morgun dagsins ljóss ad líta.

Géf mér, Drottinn! ad sofa sætt, svo mitt ei verdi gédid hrædt, vek mig aptur af værum blund, þá væn er þar til komin stund; lát mig svo bidja bestann þig, ad blessa og styrkja í öllu mig, svo veitist förnun velsemdar, verkunum minnar köllunar.

Heyri Gud, sem mig gjördi og skóp, grátbeldni mína og hjartans hróp, lát mig þig, Jesú! ljósid bjart líta, þó myrkrid verdi svart; Andinn heilagi, eg nær dey, eg bid þig, víktu frá mér ei, hressi þá blessud huggun þín, vid hold-skiljandi sálu mín!

Veri þetta í Jesú nafni já og Amen.

## Föstudags Kvöldbæn.

Engill Drottins setur herbúdir í kríngum þá sem hann óttast, og hjálpar þeim úr allri naud.

O þú mikli og sterki Gud! lát einnig á þessari tilkomandi nóttu, þína heiløgu Engla, setja upp sínar herbúdir í kríngum oss og ummúra oss med sinni voldugri vernd. Þar þú í dag bodid hefur Englunum ad vardveita oss á øllum vorum vegum, svo lát þá líka í nótt, sem þá sterku Salómonis, standa í kríngum vor hvílurúm. Vér leggjum oss nú til hvíldar, vor Jesú, æ! ádreif dyrastafi vorra hjartna med þínu heilaga blódi, svo ekkért skadlegt nálægi sig til vor; vér óttumst ekki, ef þú ert hjá oss. Þú hefur í dag med oss verid hvørt sem vér høfum snúid oss, og tillagt þína blessun verkum vorum; þú hefur látid lukkast allt þad, sem vér høfum í þínu nafni fyrir oss tekid. Æ! ad Jóseps ord hefdu verid í dag vor stadføst regla: „hvørsu skyldi eg gjøra svo mikid íllt, og syndgast á móti Gudi!" Æ! fyrirgéf oss nádarsamlega, þad sem vér høfum á þessum degi íllt gjørt, talad og hugsad! lát med þeim dvínandi degi, líka ad engu verda vorar syndir og synda sektir, svo þeirra aldrei ad eilífu framar minnst verdi. Ef þú villt tilreikna syndirnar, Drottinn! hvør fær þá stadist? því vér vitum øldúngis þad svo vera, ad enginn madur reynist réttlátur fyrir Gudi; vilji

hann vid oss þrátta, þá gétum vér ekki svar-
ad honum einu ordi til þúsund, en þad sem
oss vantar til, þad viljum vér med Jesú blódi
betala. Vor Jesús er vor, hans blód er vort,
hans réttlæti er vort, hans himin er vor.

Verndarinn kjær því minnstu mín, mig, gódi
hyrdir tak ad þér, af gjædsku bestum brunni þín,
blessun mørg hefur géfist mér.

Láttu þvílíka þína gjædsku leida oss til ydr-
unar, þar þú hefur elskad oss svo mjøg, og af
mikilli elsku hefur þú oss til þín dregid. Lát
þitt heita blód og trúføstu elsku verma vor
køldu hjørtu, svo vér styggjum þig aldrei fram-
ar meir af ásetningi, þig, sem hefur gjørt oss
svo margt og mikid gott. Vér leggjum oss
nú til hvíldar, og þessi nótt gétur ordid vor
sídasta; vér vitum vel hvørninn vér leggjumst
nidur til ad sofa, en vér vitum ekki hvørnig
vér munum uppstanda, þad er einúngis í þínu
valdi, þú Herra vorra daga og vors lífs; en
þad vitum vér til vissu, ef vér í þínu nafni,
vor Fadir! í þínum undum, ó Jesu! í þinni
sameiníngu, ó þú verdugi heilagi Andi! útaf
sofnum, þá deyum vér sáluhjálplega, þó vér
fáum ekki aptur upp ad rísa til þessa tíman-
lega lífs. Amen!

## Versið.

Byrgður í Jesú blóðundunum, býst eg nú í minn hvílurann, eitt eg í svefni er með honum, augu mín saman lykur hann, eg hræðist enga myrkra makt, minn þared Jesús stendur vakt.

## Laugardags Kvøldbæn.

Þó vér gaungum í myrkrunum, þá er Drottinn vort ljós. O þú elskuríki og náðugi Guð! nú er á enda dagurinn og þarmeð líka vikan, enn þín náð varir án afláts; fjøllin kunna að víkja og hæðir niðurfalla, en þín náð víkur ekki frá þínum børnum. Þessi eilífa náð hefur nú líka látið oss lifa þessa viku út. Hvað vér í upphafi vikunnar ekki vissum, það vitum vér nú, nefnilega: að vér mundum heilbrygðir lifa lok hennar. Þínar velgjørðir hafa þessa viku margar verið, þú hefur bænheyrt oss, verndað oss, géfið oss góð ráð, verið með oss; enginn dagur hefur svo hjálidið, að vér høfum ekki af þér þegið, náðar=, elsku= og blessunar=gáfur; já, engin stund er svo hjálidin, að ekki hafi yfir oss flotið ríkuglegir straumar þinna velgjørða. Nú høfum vér hvað vér í upphafi æsktum oss; ó þá miklu náð, elsku og miskunsemi! Enn nú hugsum vér líka við enda vik=

unnar til vorra synda; margar hafa vorar yfirtrodslur verid, sem vér med þaunkum, vilja, gyrndum, verkum og forsómun framid høfum. Þar vér høfum ekki svo trúlega sorgad fyrir vorum sálum, ekki svo margar stundir þér helgad, sem vér hefdum átt ad gjøra. Æ Drottinn! Drottinn! fyrirgéf oss þessa synd! æ Drottinn Jesú! drag med þínu heilaga blódi, yfir alla þessarar viku synda handskrift, svo hún verdi oss ad eilífu uppgéfin og forlátin. Drottinn! straffa oss ekki í þínni reidi, og typta oss ekki í þinni brædi! vertu einnig á þessari nóttu, einn eldlegur múr í kríngum oss, og lát enga ólukku, skadsemd eda hættu snerta oss né þá, sem oss vidkoma! Hjálp, ad vér vørpum vorri áhyggju uppá þig, og hvílum í þinni umsjón, vor Fadir! rósamlega. Vér erum nú einni viku eldri, og einu skrefi nær eilifdinni; endir þessarar viku minnir oss á enda vorra daga, ad sú sídasta vika, sá sídasti dagur, sú sídasta stund vors lífs, muni einnig koma, hvar á eptir fylgja mun sú lánga eilífd. Hjálpa því, ad vér brúkum svo allar vikur, daga og stundir, ad vér þurfum ekki ad skélfast fyrir þínu augliti! hjálp, ad vér alla daga þángad vendum vorum hjørtum, hvar vér óskum ei-

lega ad vera. Hér erum vér pílagrímar, hafandi vora náttbúd á jørdunni, enn á himnum er vort fødur land og eilíft heimili, hvar þú munt þerra øll tár af þinna augum, géfa þeim þíns húss dýrdar gjœdi, og endurnæra þá med eilífum føgnudi. Nú leggjum vér frá oss ydju vora, og verk vorrar køllunar, og búum oss undir þann á morgun komandi sunnudag, hvørn vér viljum brúka til ad bidja, sýngja og hugleida þitt heilaga ord; géf oss til þess krapt þíns heilaga Anda, svo hvørki mennirnir, né vor egin hjørtu, hindri vora gudrækni, Amen!

Hégóma þánkar hverfi frá og haldi fjarlægd í, hús Gudi' er situr himnum á, í hjarta mínu eg bý.

---

## Daglig Morgun- og Kvøldbæn.

O þú miskunsami Gud! hjartagódi himneski Fadir! hvørsu stór er þín elska, hversu ógrípanleg er þín medaumkan! þú þeinkir alltíd til mín; þú ber umhyggju fyrir mér; þú heyrir mína bæn; þú telur mín tár, og sér mínar andvarpanir; þú veitst mína naud, og hjálpar mér í allri minni sorg. Þú hefir undarliga skapad mig í minnar módur lífi; þú hefir í skírninni gjørt mig þína eign, og þú kallar mig á hvørjum deigi í þínu ordi til sáluhjálpar. Þinn heilagi Andi verkar ángur og trega, trú, von, kjærleika og þolinmædi í mínu hjarta, hann kénnir mér ad andvarpa; hann hjálpar mér ad bidja; já, sjálfur gengur fram fyrir mig med óaflátanligum andvørpunum. Og umfram allt þetta, minn Gud! hefur þú gjørt mér svo mikid gott, frá mínum fyrsta fædíngartíma, allt til þessarar stundar: þínir velgjørníngar eru margir, þeirra summur eru stórar; skuli eg telja þá, svo eru þeir fleiri enn sandurinn í sjónum; þess vegna þakka eg þér, Gud! af alls míns hjarta grunni! mín sála lofi Drottinn, og allt þad í mér er, lofi hans heilaga nafn! mín sála lofi Drottinn! og gleimi ekki

neinu af øllu því góða, sem hann hefir gjørt mér; sá, sem fyrirgéfur mér allar mínar syndir og læknar alla mína bresti; sá, sem endurleysir mitt líf frá fordjørfuninni og kórónar mig með miskunsemi og meðaumkan. Nú bið eg framvegis þína guðdómlegu gjæðsku, að þú ennú á þessum degi (þessari nóttu) viljir vernda mig frá allri ólukku, hættu og skaða, bæði til lífs og sálar! O Guð! varðveit mitt hjarta frá hatri og reiði, frá syndugum þaunkum og vondum gyrndum! Guð varðveiti mín augu frá óhreinleik og lauslæti! Guð stýri minni túngu frá skvaldri og baktali, frá bølvi og breiskleika, frá lýgi og ósóma! Guð stjórni mínum høndum og fótum og øllum mínum limum frá synd og yfirtroðslum, svo eg í dag (í nótt) og alla tíma megi vera óefaður um Guðs náð og alltíð í støðugri trú (sem aldrei gétur staðist án ángurs míns hjarta, og míns lífernis betrunar í Jesú forþénustu) biðji Guð um sáluhjálp. O Guð! blessa mig og alla mína á þessum tilkomandi degi (þessari nóttu) svo vér í Jesú allraheilgustu undum og sárum megum finna skjól og vernd móti syndinni, dauðanum, djøflinum og helvíti og øllum mønnum, sem

setja sig móti oss. Guð varðveiti sitt heilaga orð, og þau háverðugu Sakrament, án allra falskra lærdóma og rángrar Guðsþjónustu, allt til heimsins enda! Guð gjöri Konúngsins nafn með lukku og blessan stórt á jørðunni, og að síðustu króni hann með sáluhjálp í himninum! Guð láti enga ólukku hitta Konúngsins hús eilíflega! Guð haldi sjálfur sinni vernd yfir øllum Konúngsins mønnum, með øllu andlegu og veraldlegu yfirvaldi, svo þeir alla tíma megi auka Konúngsins gagn og landsins hag, sér sjálfum til sáluhjálpar! O Guð! géf oss frið og rósemi, og heilbrygði og heilsu, lukku og blessan, ánægju og þolinmæði! O Drottinn! géf þeim fátæka, nær hann biður! hugga þann sorgandi, nær hann líður! Slá aldrei hendinni af ekkjum og føðurlausum! Hjálpa øllum, sem eru í nauð og hjálparlausir! Fyrirgéf vorum óvinum þeirra vondsku athafnir! vertu náðugur øllum yðrandi og umvend øllum óguðlegum! O Guð! aumka þig yfir allar manneskjur, og vert mér aumum syndara, á þessum tilkomandi degi (þessari nóttu) og annars alltið náðugur! Lát mig ekkért hugsa, tala eður gjøra, sem mótstæðilegt er þinni dýrð og minni sáluhjálp.

Svo ef eg lifi, þá megi eg lifa Drottni, ef eg dey, þá megi eg deya í Drottni, og hvørt eg lifi eda dey, þá megi eg heyra Drottni til, og eg alltíd megi viss vera um einn nádugann Gud, í himninum, og sáluhjálplega burtfør af heiminum. Þér sé dýrd, þú stóri, almáttugi Gud! fyrir Jesúm Kristum, þinn Son, sem med þér og heiløgum Anda, lifir og ríkir einn sannur Gud, ad eilífu, Amen!

# II.

# Viku Kvøld-bænir.

---

## Sunnudags Kvøldbæn.

Heilagi Herra Guð! heilagi sterki Guð! heilagi líknsami Lausnari! þú æfinlegi Guð! vér aumir syndarar, óverdugir vid þig ad tala, þar vér erum ekki annad enn dupt og aska, þøkkum þér í hjartans djúpustu audmýkt, fyrir allt gott sem þú hefur audsýnt oss. Drottinn! þínir velgjørníngar eru margir, og þínar miskunsemdir eru hvørn morgun nýar. En sérdeilis þøkkum vér þér af øllu hjarta, ad þú hefir svo vel verndad oss á þessum degi, frá øllum skada og allri ólukku, bædi á líkama og sálu, og þaradauki kénnt oss, med þínu heilaga ordi, hvad þú villt ad vér skulum gjøra. Æ! hjálpa oss, vor Guð! fyrir Kristí pínu og dauda skuld, ad vér, af þínu ordi megum svo læra ad þekkja

vorar syndir, ad vér á þessari nótt, og á hvørri nóttu, vætum vort legurúm með harmi, og vora sæng með grátandi tárum. Vér høfum syndgad í himininn og fyrir þér, og erum ekki lengur verdugir ad kallast þín børn; en fyrirgéfdu oss allar vorar syndir, fyrir Jesú Kristí skuld! minnstu ekki á vora misgjørnínga, heldur á þína mjøg stóra miskunsemi og medaumkan, sem verid hefir frá eilífd. Vér høfum lagt synd á synd ofan, og drukkid í oss synd og óréttlæti, eins og jørdin vatnid; og sérdeilis høfum vér ekki haldid þennan dag (hvørn þú sjálfur hefir skipad helgann ad halda, þínu nafni til dýrdar) med svo stórri andakt sem oss bar. Vér høfum ekki med svo stórri ástundun, tekid eptir prédikuninni og Guds ordi, ekki heldur talad um þad vid vort heimilisfólk, sem vér áttum ad gjøra; og jafnvel þó vér þekkjum margar aumar, fátækar, naudlídandi, sjúkar, og vesælar manneskjur, svo høfum vér þó ekki vitjad þeirra, ekki hjálpad þeim, ekki huggad þær, sem þú, vor Gud! hefir bodid oss. Nú, þetta ángrar oss af øllu hjarta, fyrirgéf oss þad, Gud! af þinni stóru nád, fyrir Jesú dauda og pínu skuld, ad vér svo illa høfum lifad þennan heilaga

dag. O Gud! straffa oss ekki í reidi, høndla ekki vid oss í þinni brædi; vertu þinni aumu kristni nádugur, og lát oss alltíd halda þínu heilaga ordi og þeim háverdugu sakramentum í þeirra réttri medferd, allt til heimsins enda! O Drottinn! afvend strídi, og blódsúthellíngum, pestilentíu, og brádum dauda, eldibrandi og þjófahendi, og allri annari ólukku! O Gud! géf oss lukku og blessan, gróda af jørdunni, vøtnunum og trjánum, og not af øllum sképnum, sem géta þénad oss, þínum børnum til góda. O Gud! vertu nádugur þeim fátæku! Gud hjálpi þeim undirþrikktu! Gud forsvari allar ekkjur og fødurlausa! Gud umvendi øllum syndurum! O Gud! miskuna þig yfir allar manneskjur, og haf á þessari nótt, og hvørri nóttu, þína varatekt á oss, og øllu voru húsi og heimili! Bevara ættíngja og vini, góts og formegan, og allt þad þú hefir géfid oss, frá allri ólukku! og viljir þú af oss taka vort líf á þessari nóttu, svo lát þessa huggun verda allt til enda stadfastlega í voru hjarta: ad þínir heiløgu Englar muni taka vorar sálir, og bera þær í fadm Abrahams, og ad þú viljir sjá vel fyrir øllum vorum, sem eptir lifa! Heyr þetta og bænheyr,

ó gódi Gud! fyrir Jesú dauda og pínu skuld. amen, í Jesú nafni amen!

## Versid.

Miskun Guds gøfgud sé, gódan dag lifad hef, andgadur ædsta sé, orda Guds mig innvef; Fadir ei forlát mig, frid géf og sinnid rótt, blessadur, bid eg þig, bevara mig í nótt.

## Mánudags Kvøldbæn.

O hjartans allra elskulegasti Gud, og gódi Fadir! þú, sem veitst ad margar eru vorar yfirtrodslur, þú sem þekkir vora hjartans vondsku, og allar vorar gjørdir eru þér kunnar; vér kvørtum og vidurkénnum, og ángrumst af hjarta, ad vér høfum svo illa lifad, og enn nú á þessum degi lagt synd á synd ofann. Vér skømmumst vor, vegna vorra synda, og blygdumst vid ad upplypta vorum augum til þín; því vorar syndir eru fleiri enn sandurinn í sjónum, og vorar skuldir ná allt uppí skýin. Enn, æ vor nádugi Gud! þú, sem geingur frammhjá yfirtrodslunum, og tilreiknar ekki misgjørdirnar ydrandi hjørtum; vér hrópum til þín: vertu á þessari tilkomandi nótt, oss aumum syndurum, fyrir Jesú Kristí skuld, miskunsamur og nádug-

ur! Sjá, vor Gud! med kinnroda og blygdun, þekkjum vér nú og medkénnum vorar syndir, og med hjartans ángri og ydran syrgjum vér yfir vorum yfirtrodslum. Drottinn! þú ert réttlátur, en vér megum skammast vor. Drottinn! ef þú vildir gánga í dóm vid oss, þá kynnum vér ekki ad svara einu ordi til þúsund. Enn, æ vor nádugi Gud! straffa oss ekki í þinni reidi, og hyrt oss ekki í þinni grimd! gjør ei vid oss eptir vorum misgjørníngum! gakk ekki í dóm vid oss, þína synduga þénara, því þá kunnum vér aldrei ad standast fyrir þér. Enn, svo sem þú hefir ætíd verndad oss, svo ekkért illt hefur yfir oss komid, og engin plága nálgast vorn bústad;, svo vernda oss enn nú nádarsamlega á þessari tilkomandi nóttu, frá øllu illu og allri ólukku, bædi til sálar og líkama, svo viljum vér prísa þitt nafn, og vorar sálir skulu árla vakna, og þakka þér, Drottinn! medal þjódanna, og lofsýngja þér medal mannanna, því þín miskunsemi tekur svo vídt sem himininn er, og þín líkn svo vídt sem skýin útgánga. O Gud! í þínu heilaga ordi og þínum háverdugu samkramentis (sem eru þau réttu nádarmedøl) høfum vér og allir syndarar, allt vort traust til sáluhjálpar; svo lát þarfyrir þitt

orð búa alltíð ríkuglega meðal vor, og lát Satan aldrei rífa það burt úr þeirra hjörtum, sem það heyra; og lát þau heilögu sakramenta rótfesta í oss sáttmála góðrar samvitsku. O Drottinn! þú ert öllum þínum börnum náðugur; svo ver þarfyrir náðugur, og lækna þú sjálfur þína sjúku og veiku! hugsvala þeim sorgbitnu! hjálpa þeim nauðlíðandi! hugga alla huggunarlausa! forsvara allar ekkjur og föðurlausa! miskunna þig yfir allar manneskjur, bæði til lands og vatns. O Guð! miskunna þig á þessari tilkomandi nótt, yfir oss og allar manneskjur. Hald í náð þinni mektugu hendi yfir vorum ættíngjum og ástvinum, gótsi og formegan! Lát ekkért íllt koma yfir oss, eða nokkurn af öllum vorum! Guð! miskunna þig yfir oss auma syndara, og forlát oss vora misgjörnínga! Guð! géf oss upp vort forþént straff! Guð! mýk þína reiði! og að síðustu, ef vér á þessari nóttu egum hér frá að skiljast, svo géf oss, Guð! sáluhjálplegan viðskilnað, að vér með gleði og þakkargjörð megum bíða eptir vors Drottins og Frelsara Jesú Krísti dýrðar opinberan, oss til sáluhjálpar. Þitt stóra nafn, ó Guð! veri lofað eilíflega, amen!

## Versíd.

Ædst lof og dávæn dýrd, dags fyrir gjædi, og lid, sé þér, skaparinn! skýrd, skoda hvørs eg nú bid: fyri þíns Sonar sár, sendtu mér hvíld og ró, í nótt svo ekkért fár, auki mér rauna sjó.

## Þridjudags Kvøldbæn.

Vér þøkkum þér, ó almáttugi Gud! himins og jardar skapari, ad þú svo nádarsamlega hefir bevarad oss á þessum degi, frá øllum háska og skada bædi til lífs og sálar; þú hefir svo sem gengid med oss, eins og í fyrri daga hjá Ísraels børnum í skýstólpanum á dagin, svo ekkért vondt hefir yfir oss komid. Vér bidjum þig af øllu hjarta, ad þú viljir vera oss sem einn eldstólpi á þessari tilkomandi nóttu! set þú þína heiløgu Engla sem einn glóandi múr kríngum vora sæng og bústad, svo nær vér sofum, sofum vér í Drottni, og nær vér vøkum, vøkum vér í Drottni. O Drottinn! gjør vel vid oss! yfirgéf oss ekki! tak ekki þína hønd frá oss! kasta oss ekki frá þínu augliti, og tak ekki frá oss þinn heilaga Anda, heldur snú þér til vor í nád, fyrir þinnar miskunar sakir! geym oss, og vert oss nádugur, fyrir Jesú Kristí skuld! Þú ert vort traust í allri naud, og í øllum

háskasemdum væntum vér frelsis af þér, vér medkénnum vora stóru óhlýdni, og vitum vel, ad vér høfum allt gott af oss brotid med vorum syndum! Enn, æ allra elskulegasti, gódi Gud og Fadir! Vér bidjum þig af hjarta: lít ekki til vorrar miklu vondsku, heldur til þinnar stóru nádar, og þíns Sonar Jesú Kristí dýru forþénustu! O Drottinn! þú Israels huggari, og rétti naudhjálpari! hugga þú, á þessari nóttu vor sorgandi hjørtu, med þessari sáluhjálplegri huggun, ad þú sért sá rétti Israels vaktari, sem yfir oss vakir, hvørn aldrei syfjar. Vak yfir þinni kristilegri kirkju, lít í nád til þinnar syrgjandi Síon, ad hún í þínu ordi og þínum heiløgu sakramentum aldrei sakni síns rétta himna traustsi, hugsvølunar og gledi. O Drottinn! haf vakandi auga yfir øllum syrgjandi, fátækum, adþreyngdum! Gud hjálpi þeim hjálparlausu! Gud huggi þá huggunarlausu! Gud miskuni sig yfir allar ekkjur og føðurlausa! O Drottinn! gleym engum, sem hafa þinnar nádar og hjálpar þørf! Gjør gódan enda á naud þeirra forgfullu, og sýn þeim ad sídustu þína sáluhjálp! O Drottinn! send frid í vor landamerki! blessa vora fædu! géf þeim fátæku sitt braud til naudþurftar! lát him-

ininn ekki halda inni sinni døgg, edur jørdina sínum gróda! Forbjód drápsenglinum ad draga út sitt sverd, og lát alla ólukku vera lángt frá vorum bústødum! En sérílagi, ó nádugi Gud! þeynk um mig aumann syndara til þess góda, svo þeir, sem mig hata, megi sjá þad, og skammast sín. Bevara vora kjæru ættíngja og vini, sem sjáaldrid í þínu egin auga. Lát vort hús og heimili, góts og formegan vera þér befalad! Enn yfir alla hluti fram, vor Gud! minnstu vorrar aumu sálar, og nær henni leidist lífid, í daudanum, þá taktu hana til þeirrar gledi, sem aldrei gétur leidinleg ordid, í eilífu lífi! leys oss, ó Gud! þegar tíminn er, vér bídum eptir þér, kom snart til vor. Drottinn! yfirgéf oss ekki, og vert ekki lángt frá oss. Drottinn! sem ert vor sáluhjálp, hrada þér til ad hjálpa oss! þú, sem med Syninum og heiløgum Anda, lifir og ríkir, einn nádugur og mjøg miskunsamur Gud ad eilífu. Amen, í Jesú nafni, amen!

## Versid.

I dag var auga þitt, yfir mér, Drottinn kjær! allt studdi efnid mitt, aukist þín dýrdin skjær! haldt enn nú hendi þín, herra! í nótt á mér, augun þó myrkvist mín, minn andi vaki' í þér.

## Midvikudags Kvøldbæn.

O Gud allrar gjædsku! vor hjartkjæri, gódi Fadir! vér þøkkum þér af øllu hjarta, ad þú á þessum umlidna degi hefir nádarsamlega verndad oss, bædi til lífs og sálar, frá allri ólukku, og þaradauki gjædt oss med þinni nád og øllu gódu. Nú bidjum vér þig framvegis, ad þú fyrir sakir Jesú, viljir vera oss aumum syndurum nádugur! Fyrirgéf! fyrirgéf oss allt þad, sem vér allan þennan dag høfum reitt þig til reidi med, hvørt þad verid hafa þánkar, ord eda verk. Þeink ekki til vorra margføldu synda, þeink heldur til þinnar stóru nádar og miskunsemi, sem verid hefir frá eilífri tíd! O Drottinn! þér felum vér oss med sálum vorum og líkømum, á þessari komandi nóttu! Lát þína heiløgu Engla fylkja sér kríngum oss og bevara oss! Lát Satan ekkért mega sér móti oss! vernda oss fyrir hrædilegum draumum og skadlegum skélfíngum, svo ad nær vér søfum, þá meigum vér sofa í Drottni! nær vér upprísum, megum vér upprísa í Drottni! Æ vor Gud! vík ekki frá oss med þína hjálp! endurnær oss med þinni huggun! stattu hjá oss í þrautum vorum! Hvørt skulum vér flýa? hvar munum vér skjól og vernd finna, móti Sat=

ans flærðar vélum, utan hjá þér? vor Guð! Vernda oss þarfyrir undir skugga vængja þinna! O Drottinn! vernda þín heiløgu sakrament, sem eru vorrar góðrar samvitsku sáttmáli við þig, meðøl til trúarinnar, réttlætisins og sáluhjálparinnar, og lát þitt heilaga orð, sem er sá rétti kraptur til sáluhjálpar, aldrei bresta í vorum helgidómi! O Guð! blessa vorn sveita og vort erfiði, vort brauð og vora fæðu, vorar hendur og vor handaverk. Guð verndi oss frá því blóðuga sverði, frá bráðum dauða, frá húngursnauð, frá elds og vatnsvoða, og øllu þvílíku íllu. Vernda oss með frændum og vinum og øllu því, sem kjært høfum, á þessari tilkomandi nóttu, svo sem sjáaldrið í þinu egin auga, vakta vort hús og heimili, sem sá Israels vaktarinn, sem hvørki sefur né syfjar, frá allri yfirhángandi plágu og ólukku. O Drottinn! fyrir Jesú dauða skuld, hugga alla þá, sem þinnar huggunar þurfa! hjálpa øllum þeim, sem þinnar hjálpar þurfa! ráðlegg øllum þeim, sem þinna ráða þurfa; og að síðustu, lát þína náð vara og þinn krapt fullkomnast í veikleika allra þinna krossberara! Bænheyr oss, og hvørt eitt Guðs barn, sem á þig kallar, og lát oss aldrei vanta þína hjálp

í bágindunum! Dagurinn er umlídinn, og ekkért íllt hefur yfir oss komid; svo þøkkum vér þér þarfyrir, ó Gud! af øllu hjarta, fyrir allt gott, og bidjum innilega, ad þú sjálfur viljir á tilkomandi nóttu, vera vor vernd, svo vér hvíla megum undir þíns almættis vængja skugga. Vér bidjum þig, eins og barn sinn elskulegan fødur, yfirgéf oss ekki, og vert ekki lángt frá oss! Fyrirgéf oss allar vorar blódugar syndir, og fyri Jesú Kristí skuld, nádarsamlega afstýr, edur fødurlega mýk úr því þúnga yfirhángandi hefndar-straffi, sem þitt réttlæti ógnar oss med, og vér, því midur, høfum verdskuldad, med vorum margføldu yfirtrodslum; og ad sídustu, þegar vor daudastund er fyrir hendi, þá géf þú oss sáluhjálplega burtfør af þessum heimi, fyrir Jesúm Kristum, sem med þér, ó Fadir! og heiløgum Anda, lifir og ríkir, einn sannur Gud, ad eilífu, amen!

## Versid.

Herra, sem hefir mér, hjálpad í dag svo vel, ad engar árásir, óláns mér gjørdu kvøl, géfdu mér góda nátt, grandlaus svo hvílist eg, tak mig í sæta sátt, sýndu þinn líknarveg.

# Fimtudags Kvoldbæn.

Æ herra Jesú Kriste! þú lifandi Guds Son! vér medkénnum fyrir þér, af vorum hjartans grunni, ad vér ennú á þessum umlidna degi, því midur, høfum verid þínum heiløgu bodum óhlýdugir; vér høfum ekki óttast og elskad þig, sem skyldi; vér høfum vitad þinn vilja, og ekki hegdad oss þareptir; svo vér høfum, Gud nádi! lítils vyrdt þitt saklausa blód, med hvørju þu svo dýrt hefir endurleyst oss frá eilífum dauda og fordæmíng. O Jesú! þú ert réttlátur, en vér skømmumst vor í vorum hjørtum, ad ver høfum lifad allt of ógudlega; vorar syndir eru ordnar óteljandi, eins og sandurinn í sjónum, þær gánga yfir vor høfud, og eru ordnar þúngar í vorri samvitsku, eins og þúng byrdi. En, æ Jesú! þú ert Gud allrar miskunsemdar, og fadir allrar huggunar, þú ert nádugur og þolinmódur, og himin og jørd eru full af þinni gódgyrni; svo miskuna þig þess vegna yfir oss, eptir þinni miklu miskunsemi! útslétt vorar syndir, eptir þinni miklu gjædsku! og þar vér høfum ekkért ad reida oss uppá, med hvørju vér standast kunnum á degi dómsins, utan þinn egin dýrmæta dauda og pínu; svo

lát oss, ó Jesú! njóta góðs af þinni full-komnu fullnægjugjörð og nægja betalíngi, svo vér meigum standast fyrir Guðs augliti, og ekki til skammar verða eilíflega. Vertu, ó Jesú! vor talsmaður, á vorri síðustu stund, og náðugur dómari á þeim efsta dómsins degi. Vertu vor aðstoð og hjálpari í allri vorri nauð! O Guð! varðveit vora kjæru ættíngja og ástvini frá öllu íllu, sem þá kynni að hitta, annaðhvört á líkama eða sál! Guð verndi vort hús og heimili, og allt það oss tilheyrir, frá eldibrandi, þjófa hendi og öllu öðru íllu. Varðveit oss frá íllum og skað-legum draumum, svo vér ekki, jafnvel sofandi syndgum á móti þér. O Herra Jesú! þitt heilaga orð, sem þú hefir birt oss frá þíns föðurs skauti, og þín heilögu sakrament, virðstu að bevara á meðal vor, óumbreytt, allt til heimsins enda, þínu heilaga nafni til dýrðar, en oss þínum börnum til eilífrar sáluhjálpar. O Drottinn! géf frið um vora daga, varð-veit oss frá blóðugu stríði, frá þeim hastar-lega dauða, og öllu illu! vertu huggun þeirra sjúku! vertu faðir þeirra föðurlausu! vertu forsvar ekknanna! vertu verndari fátækra, og forsorgari allra manna! Herra Jesú! í þínu

nafni leggjum vér oss til hvíldar, en lát vor hjørtu alljafnt vaka til þín, svo vér einnig sofandi meigum um þig hugsa. Og lát oss aptur á morgun glada uppstanda, til ad lofa og prísa þitt heilaga nafn. O Drottinn! þér tilheyrir lofgjørd, prís og æra; því undir þinni vernd alleina, høfum vér á þessum degi svo nádarsamlega vardveittir verid frá øllu íllu. Haf framvegis vakandi auga yfir oss, á þessari tilkomandi nóttu; fyrir vors Endurlausnara Jesú Krists sakir, vertu nádugur, og fyrirgéf vorar misgjørdir! Fordjarfa oss ekki, og lát oss á þessari nóttu ekki erta þig til reidi; en géf oss nádugan tilbúníng, ad vér á vorri sídustu stundu, meigum med þeim heilaga Stephano sjá himnana opna fyrir oss, og svoleidis med gledi og þakklæti gánga inní eilíft líf. Gud heyri og gjøri þad, fyrir Jesum Kristum alleina, amen, í Jesú nafni. Amen!

## Versid.

Gud minn gøfgadur sé, gjædsku fyrir og nád,
í dag sem eg reyndi, allt mitt hann bætti rád.
Æ Drottinn! ad mér gá, enn í nótt, ró og hægd,
veit mér, en výl og þrá, vendi burt og óþægd.

## Føstudags Kvøldbæn.

Líknsami og þolinmódi og mjøg miskunsami Gud! sem líknar øllum þínum handaverkum; vér þøkkum þér af innsta hjartans grunni fyrir þína miklu fødurlegu umhyggju, sem þú ber fyrir oss aumum syndurum, þar þú í dag, og á hvørjum degi, frá vorum fyrsta fædíngartíma, hefur svo nádarsamlega vardveitt oss, frá svo miklu íllu, sem oss hefdi kunnad ad henda, bædi á sálu og líkama. O Drottinn! lít ekki til vorra margføldu synda, med hvørjum vér høfum allan daginn í gégn, þér á móti gjørt; heldur lát þær útsléttar vera, fyri Jesú allrahelgasta blód, og minnstu þeirra aldrei framar ad eilífu! þú ert sá heilagi Gud, og veitst ad vér ekki alleina erum gétnir í syndinni, heldur og einnin høfum, alla vora lífdaga, lifad í syndunum, og yfirtrodid þín heiløgu bodord, med syndsamlegum lystum og gyrndum, med vondum þaunkum, skammarlegum ordum, og ókristilegum gjørdum; og med þessu høfum vér verdskuldad, ekki alleina alla tímanlega ólukku, heldur einnegin eilífa helvítis pínu og fordæmíng! En, æ Drottinn! straffa oss ekki í þinni reidi! heimsæk oss ekki á þessari nóttu í þinni brædi! Vér liggjum fyrir

þínum fótum, með sundurknosudum hjørtum, og ángrudum sálum; vertu oss aumum syndurum, fyrir Jesú blóduga dauda skuld, nádugur; vér høfum syndgad! vér høfum syngdad! En Drottinn! fyrirgéf! fyrirgéf oss þad, og vert oss nádugur! Lát aungva ólukku fyrihitta oss, né vora, hvørt sem er til sálar eda líkama, á þessari tilkomandi myrku nótt, heldur vernda oss nádarsamlega, með húsum og heimili, frændum og vinum, með þinni guddómlegri varatekt; og lát vort hæli og vora hjálp vera undir þinna vængja skugga! O Drottinn! eins og hjørturinn kallar eptir fersku vatni, svo kalla vorar sálir eptir Gudi, eptir þér, þú lifandi Gud! þángadtil þú gjørir enda á vorri eymd. Drottinn! varðveit þitt heilaga ord hreint og rétt, og þín dýrmætu sakrament í þínum helgidómi, hjá oss óumbreytt, allt til heimsins enda, svo vér alltíd meigum í vorum hjørtum innsiglast, með trú og trausti sáluhjálparinnar! O Gud! afstýr nádarsamlega, edur mýk føðurlega allt yfirhángandi verdskuldad straff og plágur! send oss, eptir þínum vilja, allt óforþént gott! géf lukku og blessan, géf frid og rósemi, géf heilsu og heilbrygdi, géf braud og fædu! klæd þann

nakta, fæd þann húngrada svala þeim þyrsta! Lát ekknanna og føðurleysíngjanna bæn þreingja sér í gégnum skýin, og ekki linna fyrr enn hún kémst fram, og finnur bænheyrslu hjá þínum stól og hátrón. Miskuna þig yfir allar manneskjur, og hald nádugu auga yfir oss, þínum fátækum børnum, mót allri hættu og ólukku! O Drottinn! lát oss sofa rólega! lát oss vakna gladlega! Lát þína heilaga engla vera vora hlífd og vernd móti djøflinum og allri ólukku! og skuli þessi nótt verda vor dauda og skilnadar nótt, svo lát oss hafa vora trúarlampa tendrada, svo vér meigum inngánga med Jesú, vorum sálar brúdguma, í brúdarsalinn, til Guds barna safnadar og margra þúsunda heilagra engla, til ad njóta þar yfirfljótanlegrar gledi og dýrdar, sem er hjá Guds hægri hendi; þá gledi géfi Gud Fadir oss øllum Guds børnum af nád, fyrir Jesúm Kristum vorn Drottinn, sem med honum og heiløgum Anda lifir og ríkir, einn sannur Gud, hátt lofadur ad eilífu. Amen!

## Versid.

O Gud! sem géfur mér, gjæda dags enda sjá, og óláns øllum her, afstýrir mér í frá; lát

mig um myrka nátt, mædulaus hvílu kjor, hreppa, en hjúkra hátt, Herra minn! gjædsku ør.

## Laugardags Kvøldbæn.

Heilagi, stóri, almáttugi Gud! Fadir, Sonur og heilagur Andi, þú eilífi Gud! vér þøkkum þér af øllu hjarta, ad þú hefir svovel vardveitt oss, á þessum umlidna degi, og alla þessa viku, frá øllum háska og skada, bædi til lífs og sálar! Nú bidjum vér þig, ad þú framvegis viljir bera umhyggju fyrir oss, á þessari tilkomandi nóttu, svo vér ekki føllum í syndir, né neina adra ólukku! O Drottinn! þegar vor augu sofa, þá vak þú yfir oss, eins og sá rétti Israels vaktari, sem ekki sefur, og hvørn ekki syfjar! Þetta er hin sídasta nótt af vikunni, og vér høfum vel verdskuldad alla þessa viku, ad þetta verdi hin sídasta nótt nádar þinnar vid oss. Enn, æ nádugi Fadir og líknsami Gud! vertu oss ekki svo reidur, ad þú hastarlega burtsviptir oss í þinni grimd! gleym oss ekki svo aldeilis! Tillyk ekki med reidi þína medaumkan! Lát ekki þína miklu miskunsemi vid oss, svo fljótt taka enda! útkasta oss ekki frá þínu augliti, og tak ekki þinn heilaga Anda frá oss.

En, egi þad fortakslaust svo ad vera, vor Gud! ad þú viljir straffa oss, fyrir svo mörg stórbrot, med hvörjum vér, alla þessa viku, og alla vora æsidaga, þig svo mjög módgad höfum; ó, svo straffa í nád og med máta! Þú alleinn ert sá, sem géfur krapta þeim þreittu, og eykur styrkleik þeim ormögnudu; ó, svo géf oss einnig krapt og styrk hér eptir, dag frá degi, svo vér verdum frómir og lifum betur! Æ Drottinn! vertu oss ekki reidur eilíflega, og lát ekki á þessari nóttu, né nokkurntíma þína ónád hitta oss í vorum syndum! tak oss ekki í burt ad hálfnudum vorum dögum! O Gud! hald þínu ordi og þínum dýrmætu sakramentum vid lídi hjá oss eilíflega, fyrir utan falskan lærdóm, og ránga Guds þjónustu, svo vér og allir ydrandi syndarar, alltíd þarí finna meigum krapt til sáluhjálpar, og ylm lífsins til lífsins! Gud géfi oss frid og rósemi! Gud unni oss heilsu og heilbrygdi! Gud blessi nádarsamlega vora akra og engjar, vorar karfir og afgángsleyfar! Drottinn blessi oss og vardveiti oss! Drottinn láti sitt auglit lýsa yfir oss, og sé oss nádugur! Drottinn upplypti sínu augliti yfir oss og géfi oss frid! O Gud! þú hefir spennt þinn boga, og lagt

á hann daudleg skeyti, og siktar á oss; en fyri Jesú dauda skuld, hald enn þá lítid aptur, svo þad blódugа sverd ekki fortæri oss, og pestilentía og brádur daudi, ekki eydileggi oss! O. Drottinn! høndla ekki vid oss eptir vorum slæmu syndum, og gjald oss ekki eptir vorum mørgu misgjørníngum! Lát oss finna nád fyri þínum augum, og sjá þó, ad þetta fólk er þitt fólk! O Drottinn! vér játum þér vora misgjørnínga, og ángrumst af vorum syndum; þú þekkir vora hjartans vondsku, og allar vorar misgjørdir eru þér vitanlegar; þess vegna liggjum vér nú, med óvyrdíngu, fyrir þínum fótum, og bidjum um nád hjá þeim, sem dæmir oss. O Drottinn! vertu oss øllum nádugur! vakta oss, med húsum og heimili, gótsi og formegan, fyrir eldibrandi, vatnsvoda og þjófahendi og øllu ødru íllu, og lát aungva ólukku koma innan vorra dyra! kénn oss ad telja vora daga, svo vér alltíd megum bída eptir vorri skilnadarstund, og vænta í voninni eptir Guds barna dýrdlegu frelsi! Æ Drottinn Jesú! kom, kom nádugur, kom snarlega! í þínar hendur felum vér bædi líf og anda! Þú hefir endurleyst oss, Drottinn! þú trúfasti Gud! Amen!

## Versid.

Lof sé þér, gódi Gud! gjæfu og láns fyrir hag, sem hjálp þín hábleſsud, hreppa lét mig í dag! lát í nótt lýsa hér, ljós þitt, en høndin mæt hlýsi og hlynni' ad mér, hvíldin þá verdur sæt.

---

# Sálmur

### útaf

## sjø ordum Kristi á krossinum.

Má sýngja hvørt vers á hvørjum vikudegi kvøld og morgna.

---

### Sunnudagur.

Lagid: Heidrum vér Gud af huga' og sál.

Þú sem bádst fridar fyrir oss, Fødurinn, þegar héktst á kross, þig bidjum vér um nád á ný, í nafni þínu segjum því:

Framferdid illa fær í lag, farsæl gjørvallan lífsins hag, og géf oss øllum gódan dag.

Forlát, Drottinn! framferdid ljótt, fadma' oss ad þér svo verdi rótt, og géf oss øllum góda nótt.

## Mánudagur.

Móður þinni sem forsvar fékkst, sølur þegar á krossi hékkst, láttu mig einnin forsvar fá, Frelsari minn! þér sjálfum hjá:

Minn Gud! þad sýn á mínum hag, mitt blessa ráð og vinnulag, og géf oss øllum gódan dag.

Virtu þitt forsvar hátt og hljótt, hjúkradu mér svo verdi rótt, og géf oss øllum góda nótt.

## Þridjudagur.

Ræninginn bad og fyrir þad fékk; frá myrkrinu í ljósid gékk, Herra! eg eins af hjarta kýs, hjá þér ad vera í Paradís.

Láttu þad mínum heppnast hag, ad hljóti eg svoddan gjæfu plag, og géf oss øllum gódan dag.

Lífsins og daudans mid er mjótt, mínum vid haldtu sálar þrótt, og géf oss øllum góda nótt.

## Midvikudagur.

Yfirgéfinn kvad Son Guds sig, svoddan af hjarta gledur mig, yfirgéfa mig ekki kann, yfirgéfinn fyrst gjørdist hann.

Yfirgéfdu nú ei minn hag, áformid, verk né bænalag; géf mér þar uppá gódan dag.

Yfirgéfa mig aldrei mátt, ó Jesú minn! á nokkurn hátt; géf mér þar uppá góda nátt.

## Fimtudagur.

Jesú! á krossi þyrsti þig, það léttu, Jesú! hressa mig, þorstinn þinn verki þetta mér, þyrsti mig jafnan eptir þér!

Svala hér mínum sálar-hag, síðan mig upp í hæð-ir drag, og géf oss øllum góðan dag.

Svaladu minni sálu skjótt, sofna láttu mig vært og rótt, og géf oss øllum góða nótt.

## Føstudagur.

Fullkomnað sagðir forðum þú, fullkomnað segðu aptur nú, fullkomnað hrópa fyrst eg bið, fullkomn-un þá eg held mig við.

Fullkomna nú með sama slag, sinni mitt bæði og verkalag, og géf oss øll-um góðan dag.

Fullkomnað játa, Faðir! brátt, fullkomna þræln-um vægð og sátt; og géf oss øllum góða nátt.

## Laugardagur.

Frelsari minn! sem Føðurnum, fólst þína sál á krossinum, mig fel eg líka honum í hønd, heim-ili gjørvalt líf og ønd.

Allt mitt ástand og all-an hag, annastu það með besta slag, og géf oss øllum góðan dag.

Umkríng oss þinni Engla gnótt, uppá það sofnum vært og rótt; géfðu oss øllum góða nótt.

# III.

# Sjø Daglegar Andvarpanir

útaf

Sjø ordum Kristi á krossinum,

med minníng Skøpunarverksins.

---

## Sunnudags Andvarpan útaf Fyrsta Ordinu:

Fadir fyrirgéf þeim, þvi þeir vita ei hvad þeir gjøra.

O! minn allrasætasti Jesú, þú heilagi blód-brúdgumi minnar sálar! skilda mín er, ad eg á þessum fyrsta degi vikunnar minnist á þína sáru kvøl og pínu, hvør ætíd á øllum tímum ætti mér ferst ad vera í mínu minni, þá þú útþaninn á høndum og fótum hékkst á millum

himins og jardar, og gjørdist svo sem ein festíng á milli Guds reidi og vor; á millum eilífrar fyrirdæmíngar og vor; undir þessari nádar festíng vil eg feginn vaka, sofa, sitja og gánga, lifa og deya. O! minn Jesú! svo sem þú í dag lætur þitt heilaga ord lesast og prédikast fyrir mér, svo sýsir mig ad heyra þíns heilaga kross prédikun og þau ord er þú þar taladir. Fagran hljóm og sætan smekk géfur minni sálu þitt fyrsta ord, þar þú badst fyrir þínum óvinum, í hvørra tølu eg aumur syndari einnig var. O! þú himneski Aron! þín bæn er þad rétta reykélsi, sem stillir Guds reidi, en mýkir neidina. Pláneturnar á himninum hafa nokkra verkan hér nidri á jørdunni, eptir edli náttúrunnar, en miklu meiri krapt hafa þín heilogu ord, sem ad eru svo sem himneskar plánetur á himni nádarinnar, hvør ed verka bædi á himni og jørdu; á himnum fridþægjandi Gud, á jørdunni gledjandi syndugа. O! gódi Jesú! útbreid þú þinn blessada blódfadm yfir mig og mína á þessum degi. Gud var og er þinn fadir ad eilífu, svo er hann og einnig minn fadir bædi í hryggd og gledi, lífi og dauda. Þú minn Jesú! gjørdir á þessum degi, med þínum Fødur og heiløgum

Anda, ljósid, í fyrstu sköpun, og adgreindir þad frá myrkrunum, vertu mitt ljómandi ljós ad eilífu, og géf mér ad greina myrkur syndanna frá ljósi gudhrædslunnar, svo eg í ljósinu gángi. O! mildi Jesú! þú uppreist á þessum vikudags morgni úr þinni grøf, géf mér í dag og alla mína tíma ad upprísa úr minni synda grøf. Þú taladir mín vegna til þíns Fødurs af þínum krossi; þú verdur nú í dag til mín talandi, fyrir munn þíns þénara. Drottinn minn Jesú! géf mér ad heyra og vardveita þitt ord, þér til lofs og dýrdar, en mér til sáluhjálpar. Amen.

## Mánudags Andvarpan
### útaf Ødru Ordinu:

### Þú kvinna, sjá! þar er þinn Sonur.

Herra Jesú Kriste! minn Endurlausnari! hvad ástúdlegar eru þínar varir, sætari hvørju hunángi. Þad reyndi þín sæla og signada módir María, hvørri til forsvars og adstodar þú sendir og skikkadir Jóhannem þinn lærisvein, þá hún sorgfull horfdi á móti þínum útbreidda blódfadmi. Upp á þig, minn sæti Jesú! mæni eg nú og lít mínum sálar augum, á þig vona

eg, því þú ert mín einasta huggun, heill og blessan. Í þínu nafni blessast mér bædi himin og jørd og allar sképnur. Í skjól og skugga þíns kross flý eg nú, því þú rekur engan frá þér, er til þín kémur. Líttu nú þínum miskunar og medaumkunar augum til mín, svo sem þú leitst til þinnar blessudu módur. Stid og styrk, hugga og gled mitt hjarta. Auk mína trú, því nær eg hefi þig, Drottinn! þá hyrdi eg ei um himin né jørd. O gódi Jesú! send mér góda forsvarsmenn; já, vertu sjálfur mitt besta forsvar og allra minna, þá mér og mínum helst á liggur, einkum þá eg hlýt hédan ad fara, vertu mér þá næstur og nálægastur! Géf mér og einnin þíns eptirdæmis ad gjæta: voludum bjørg ad bæta, med blessan þegar eg má. O minn sætasti Herra! þú gjørdir á þessum degi, í fyrstu skøpun, eina festíng millumi efri og nedri vatnanna. Vertu í dag ein blessud festíng milli mín og allrar ólukku, falls og fordjørfunar, sé þín blessan einn hlýr himin yfir mér og mínum, æ og eilíflega, Amen.

# Þridjudagsi Andvarpan
## út af Þridja Ordinu:

Sannlega segi eg þér, í dag skalt þú vera med mér í Paradís.

Minn elskulegasti Herra Jesú! gladur vil eg undirtaka med þeim heilaga Davíd, segjandi: sælir eru þeir, hvørjum misgjørdirnar eru fyrirgéfnar. Þad reyndi sá ydrandi, til þinnar hægri handar krossfesti Ræníngi, hvørjum þú lofadir, med svørnum eidi, Paradís. Eg má maklega játa, ad eg er engu betur á mig kominn enn hann. En þarámóti gledur mig sætleiki þinnar nádar. Minnstu þar fyrir, Drottinn minn! mín í sømu miskun þinni, og gleymdu syndum mínum; eg vil feginn aptur á móti minnast þín, med ydran, bæn, trú og þakklæti. Drottinn minn! vardveittu mig í dag, frá allri ólukku og ógjæfu, svo eg komi ei í neina fordjørfun lífs né sálar. Géf mér svo hreina ydran, sem þessum ræníngja, en lát mig hana ei svo leingi undan draga. Drottinn minn Jesú! þú adgreindir á þessum degi, í fyrstu skøpun, vøtnin og þurlendid, þú frelsadir einnig sál ræníngjans úr slódi eilífrar fyrirdæmíngar, og létst hana ná landi þinnar gjædsku,

og því fagurblómgada landi lifandi manna. Láttu mig svo, Drottinn minn! leysast úr flódi allra eymda og hørmúnga, syndanna, daudans og fyrirdœmingarinnar, svo mín sál nái þurlendi eilífrar hvíldar og blessunar; og sídast í mínu andláti, seigdu til sálar minnar; í dag skaltu vera hjá mér í Paradís. Þetta veittu mér, minn Drottinn Jesú! blessadur ad eilífu. Amen.

## Midvikudags Andvarpan.

út af Fjórda ordinu:

### Gud minn! Gud minn! hvar fyrir hefur þú yfirgéfid mig.

O minn gjœdskuríkasti Jesú! maklega ætti og mætti sála mín á hvørjum degi minnast á þína sáru pínu, hvør svo bitur og beisk var, ad sú fagra sól, (hvørja þú á þessum degi í fyrstu skøpun gjørdir), af blygdan og medaumkvan misti sína byrtu, þar þú, af ofraun kvalanna, kvartadir um, ad þú værir af Gudi þínum Fødur yfirgéfinn. Æ! hvørsu mætti eg aumur syndari, (sem forþénad hefi út ad kastast í ytstu myrkur), skammast mín dags og sólar byrtu ad líta! því fell eg nú þér

til fóta, minn elskulegasti Jesú! med ydrandi hjarta, og prísa þína miskun og elsku, því med þessu þínu kvalahrópi, hrópadir þú mig inní himneska sælu. Því hrópa eg nú aptur og segi: lofa þú Drottinn sála mín! og gleym ei øllu því góda sem hann hefur veitt þér. Drottinn minn Jesú! frelsa mig frá þeirra ytstu myrkra kvala hrópi! frelsa mig þennan dag og alla tíma frá allri neyd og ólukku. O! gódi Jesú! eg bid þig, ad þegar eymda og mótlætis ský, vilja fyrir mínum augum þína nádar geisla hylja, þá láttu ljós þinnar huggunar skjærast skína í hjarta mínu. Gud er þinn Fadir, midt í þinni mestu kvøl; hann er líka minn Fadir í þínu nafni, hvørt heldur eg kvelst eda kjætist. O Jesú! þú sem um stundar sakir varst af þínum Fødur yfirgéfinn, yfirgéfdu mig aldrei ad eilífu! og á minni sídustu stund, þá þau náttúrlegu ljósin følna fyrir mínum augum, þá veri þetta þitt hróp, sætur hljómur sálu minni, til eilífrar huggunar. Amen.

# Fimtudags Andvarpan
útaf af Fimta Ordinu:

## Mig þyrstir.

Jesú Kriste Guds Son! þú lifandi lífsins brunnur og uppspretta! af hvørjum þad lifandi lífsins vatn flýtur til allra þyrstra og ørþjádra sálna! lífga og endurnær mitt hjarta. O! Herra Jesú! hvad sár var þín pína! hvad stór þín kvøl! hvad óumrædileg þín elska! Þú hefur skapad vatnid, eins og alla adra náttúrlega hluti; þú framleiddir vatn fordum af einum steini, þú umsnérir vatni í vín; þó þyrsti þig, og fékkst ei nema gall og Edik í þínum þorsta! Svala þú nú, Drottinn minn! þyrstri sálu minni í dag, á brunni þinnar nádar! ó Jesú! þig þyrsti eptir mér og sálu minni, láttu mig einninn þyrsta eptir þér og þinni miskun, en ei eptir galli heimsins vellystínga, þó holdinu sætt finnist. Drottinn minn! láttu mig ei bjóda þér gall hræsninnar, heldur hreint vatn ydrunarinnar, vín elskunnar og þakklætisins. O gódi Jesú! géf ad eg frá mér hrindi syndanna og prettvísinnar galli, en elski þad skjæra vín, sannrar gudhrædslu. Drottinn Jesú! þig

þyrsti á krossinum; þig þyrstir enn nú, í þínum naudstøddum limum, géf ad eg beri þeim vín gódgjørda og miskunar. Herra Jesú! þú skapadir á þessum degi, í fyrstu skøpun, fiska og fugla, mér til atvinnu; blessa þú mér þær sképnur og allar adrar í dag og alla tíma. Allra sídast, þegar daudans þorsti og hrigla ásækir mig, í mínu andláti, dreiptu þá á sálu mína sætleiks víni himneskrar huggunar, og frelsa mig frá eilífum kvala þorsta, fyrir þinn sára pínu þorsta. Amen.

## Føstudags Andvarpan
### út af Sjøtta Ordinu:

### Þad er fullkomnad.

O minn elskulegasti Jesú! í allann máta má eg sanna, sjá og smakka sætleika þinnar nádar, og enn nú á þessum degi, þegar nóttin er endud, en dagur aptur kominn; því ber þér þar fyrir fullkomid hjartans þakklæti. Svo er og mín skylda, ad minnast á fullkomnun minnar endurlausnar, sem skédi fyrir þína pínu, þá þú vitnadir, ad allt væri fullkomnad. O! Drottinn Jesú! þú fullkomnadir á þessum degi, med þínum Födur og Heiløgum Anda, skøpun

allra hluta og sképna, einninn sköpun manns-ins. Þú fullkomnadir og, á þessum degi vikunn-ar, endurskøpun mannsins, þad var endurlausn-ar verkid! lof og dýrd sé þér ad eilífu. O Jesú! þú sem fullkomnadir allar fyrirmindan-ir og spádóma, uppá þig hljódandi, svo full-komna þú í og med mér, þína nád og kjær-leika, og rétta elsku til þín. O mildi Jesú! lát þetta þitt ord vera stadfestíng trúar minn-ar, og fullkomid traust minnar sáluhjálpar. O sæti Jesú! fullkomna þú allt í og med mér, á þessum degi, þér til lofs, en mér til far-sældar. Og þá mitt líf er úti, og fullkomn-ad, þá leid þú mig til eilífrar fullkomnunar, í himnaríkis dýrd og gledi. Amen.

## Laúgardags Andvarpan
### út af Sjøunda Ordinu:

Fadir! í þínar hendur, fel eg minn Anda.

O Jesú Kriste! þu lifandi Guds Son! þú mitt ljós og líf! til þín kém eg á þessum degi, med minni bæn og andvarpan. Eg vil nú minnast vid þinn føla talandi munn, med hvørjum þú í þínu andláti, fólst á hendur

þínum himneska Födur, þína sál. Drottinn minn Jesú! eg segi enn nú: í þínu nafni er Gud minn Fadir, bædi í lífi og dauda, og eg trúi því stadfastlega, ad þu hafir hér med befalad honum mína sál, því hún er þín eign. Eg befala þér einninn mig í dag, med sálu og lífi, æru og embætti, vinum og vandamönnum. Í höndum þíns himneska Födurs og þínum, vil eg feiginn lifa og deya, vaka og sofa, þar hrædist eg aungva ólukku. O gódi Jesú! þú sem hneigdir þitt höfud í þínu andláti, hneig þú mitt hjarta til þín. Þú minn Drottinn! hvíldist á þessum degi, í fyrstu sköpun. Þú minn Jesú! hvíldist á þessum sama degi í gröfinni, ad fullkomnudu endurlausnar verkinu. Og eptir þetta sídasta ord hvíldist þín sál, vid heilagann líkama skilin, í höndum þíns födurs; lát einnig mína sál, í mínu andláti, hvílast í útbreiddum blódfadmi þínum. Jesú! þitt sídasta ord í pínunni, sé mitt sídasta á minni daudastundu. Amen.

# Sjø
# Vikubænir á kvøldum,
samanteknar af
Síra Jóni sál. Vigfússyni.

---

## Sunnudags Kvøldbæn.

Heilagi Fadir á himnum! sem af þínum almættis krapti, á þessum fyrsta vikunnar degi, ljósid skapadir, øllum jardneskum sképnum þínum til gagns og gledi; þér hinum sama ljóssins Fødur, færir nú mín sála, audmjúkt þakklætis offur á þessa dags kvøldi, fyrir þitt fagra ljós, sem yfir mér hefur skinid í dag, sem endrarnær, med øllum þínum gódgjørdum, er í morgun, sem hvørn annann dag, yfir mér óverdugum upprunnu. Eg bid þig hjartanlega, ad þú viljir fyrirgéfa mér allar mínar syndir, og illa vanbrúkun á þínu ljósi í dag. Láttu mínar syndir nú í dag med deginum undirgánga og aldrei meir upprenna, en þína nád og miskun sem annad fagnadarljós yfir mér blífa. Bless-

adu mína sál og líkama, og upplýs nádarsamlega næturinnar svørtu myrkur med þínum himneskum nádargeislum. Géf mér ad hvílast rósamlega nú í nótt, svo líkaminn, án allrar skélfíngar megi sofa undir þínum nádarvængjum, og midt á milli þeirra himnesku vaktara, þinna heiløgu Engla, en sálin hvílist í þínum fyrirheitum. O! þú blessadi Gud! þó þessi nætur myrkur séu øflug og ógurleg, þá láttu meir orka mér til yndis og huggunar þitt lífsins orda ljós, sem þú kveiktir hjá mér í dag, en myrkranna ógnan mér til skélfíngar. O! þú miskunsami Herra! eg hugga mig vid þína nád og leggst nú til svefns og hvíldar, vonandi, ad þitt skapada ljós og birta, sem nú undirgékk, muni aptur á morgun yfir mér upprenna. En audnist mér ekki framar dagsins ljós ad líta, æ! þá láttu þitt nádarljós yfir mér aldrei daprast, heldur lýsa mér til þíns dýrdar ljóss, sem aldrei ad eilífu undirgengur. Bænheyr þú mig himneski Fadir, í Jesú þíns Sonar blessada nafni. Amen.

## Mánudags Kvøldbæn.

Nádarríki Gud og himneski Fadir! sem á þessum degi adskilnad gjørdir efri og nedri vatn-

anna og tilbjóst himininn svo prýdilega, med þínu almættis ordi. Heidur og þakkargjørd segi eg þér af hjartans grunni, fyrir øll þín dásemdar verk og velgjørnínga. O! hvad margt gott hefur þú í dag mér af himnum sendt, fyrir þína nád og miskun. Þadan hafa enn, á þessum degi til mín komid þær himnesku hersveitir þínar, 'sem mig hafa geimt frá allri ólukku, voda og meinum. Svo opt sem þínar gódgjørdir koma mér til handa, svo opt má mer til hugar koma þetta dagsverk þitt, þvi allt kémur mér þad af himnum ofan, frá þér, himneski Herra! En, hvørsu mjøg hefi eg syndgad í himininn og fyrir þér; mínar syndir eru hátt stígnar yfir mitt høfud. Æ! þú heilagi Gud! láttu þær þó ekki til fulls hafa gjørt adskilnad millum mín og þín, heldur gjør þú miklu framar adskilnad millum mín og þeirra, med forþénustu þíns Sonar Jesú Kristi. O! þú eilífi Gud! vertu mér nálægur í nótt, med þinni nád og tilsjón, en rektu frá mér alla mína óvini, sýnilega og ósýnilega, og alla skélfíng og hrædslu. Svo geng eg nú til minnar sængur og aflegg mín klædi, því eg treysti stadfastlega þinni hjástod; þó þú hafir gjørt adskilnad þeirra náttúrlegu vatnanna, þá veit eg þó samt, ad þú ad-

skilur ekki táralæki þinna vesælu sképna frá náð-arstraumum þínum, og lætur ekki þeirra bænir fjarlægjast himininn. Því mæni eg nú, í þessum nætur myrkum, augum mínum til himins, vitandi fyrir víst, að þaðan muni mér hjálp og hugg-un koma. Nóttin hefur byrgt fyrir dagsljósið, láttu hana þó ekki byrgja fyrir mér þína náð, heldur eins og eg vona, að eptir þessa nótt muni dagurinn koma og skína, svo géf mér, að eptir þá síðustu dauðans nótt mína, megi skjær fagnaðardagur yfir mér upprenna á himnum, hvørs ljóma engin nætur myrkur framar munu áskyggja. Amen.

## Þriðjudags Kvöldbæn.

O! þú eilífi Guð og Drottinn! nú hefur þessi þriðji dagur vikunnar enda tekið, á hvørjum þú vannst það dásamlega sköpunarverk jarðar-innar og gjørðir hana þurra og ávaxtarsama, einnig sjóinn og alla aðra vatnsstrauma. Lof-uð sé þín speki og fyrirsjón, og mín sál prís-ar þig nú af hjarta, að eg hefi á umliðnum degi í engan háska ratað, þú hefur og látið mér lukkast vinnu mína og verklag í dag, alla lífs-ins mæðu og erfiðleika hefur þú, líknarsami Guð! friðdað með þinni náð, hvørrar sætleiki

yfirgnæft hefur alla baráttu. En hvad illa hefi eg lifad, og hvad margt spor hefi eg í dag á jørdunni framgengid til synda og lasta! æ! fyrirgéf mér allar mínar yfirtrodslur! Sjá þú, minn Guds! mína sálu þyrstir nú eptir þér. Æ! vyrdstu mildilega ad yfirdøggva mig á þessari nóttu med þinni líkn og nærveru. Géf ad minn líkami sem í dag á jørdunni mædst hefur, megi enn í nótt rósamlega hvílast án allrar hættu. Lát ekkért íllt á þessari nóttu, né nokkurn tíma ná til mín, edur minna, sem mér tilheyra! Í þínu nafni legg eg mig nú til hvíldar! Þú sem adgreindir sjóinn frá þurrlendinu, adgreindu nú í nótt allar freistínganna bylgjur frá sálu minni, en helltu aptur yfir hana nádarlækjum þínum, svo eg verdi ei sem þur, hrjóstrug og ávaxtarlaus jørd, eda fúinn fauskur! Ó! þú eilífi Gud! lát mig svo hvíla í nótt undir þinni hlífd, ad eg á morgun gladur og ánægdur aptur uppstanda megi. Og þegar eg skal allra sídast hér víd skiljast, lát mig þá í þínum nádarfadmi sætlega sofna, og sídan, med æru og føgnudi, fagrann dýrdardag líta, á nýskapadri jørdu, og á lifandi manna landi, eilíflega umgengni hafa. Amen.

## Midvikudags Kvøldbæn.

Blessadur ad eilífu sértu, himneski Gud og Fad-
ir! sem á fjórda degi vikunnar settir sólina og
túnglid og þær lýsandi stjørnur á festíngu him-
insins, øllum sképnum til upplýsíngar á nótt og
degi; þitt fagra ljós, Drottinn! hefur enn nú
í dag, yfir mér skinid, svo mér hefur farsæl-
lega notkast mitt vinnulag. Jeg hefi og fyrir
þína hjástod umflúid gétad allar háskasemdir,
þar þín sólar birta hefur mig þær varast lát-
id; þó hefi eg aum manneskja ekki fordast ad
láta þína sól skína yfir ílskuverkin mín. Æ!
hvørsu munu þau í dag audsýnileg verid hafa
fyrir þínum augum, minn Gud! hvør ad eru
skjærari enn sólin; því bid eg þig audmjúklega
ad fyrirgéfa mér, í Jesú nafni, allar mín-
ar syndir, á þessum degi, móti þér gjørdar.
Lát þína blessada nádarsól yfir mér skína
í þessum nætur myrkrum, svo þó mín lík-
amleg augu ekkért sjái annad enn myrkur
og dymmu, þá megi þó sálin mín í nótt
skémta sér vid skodun þeirrar himnesku sól-
arinnar, hvøred frá mér og mínum burtfæli
þann vonda myrkanna anda og allar hans
freistíngar, svo eg óhultur og upplaus sofa megi
undir míns Guds verndar skugga. Miskunsami

Gud! sem settir túnglid og stjørnurnar til ad lýsa á nóttunni, svo hún skyldi ekki øldúngis birtulous vera; ekki þarf eg sídur vid nádar þinnar á nóttu enn degi, láttu nú þær himnesku stjørnurnar, þína heiløgu Engla, sem af sólunni Jesú Kristi, sinn bjartleik hafa, í kríngum mig leyptra, á nádar himni þínum nú í nótt, svo mun eg ei hrædast neina myrkranna ógnan né skélfing. Svo bíd eg nú óhræddur eptir morgun sólunni, sem í kvøld undirgékk. Veittu mér líka ad sjá med hennar uppruna, þína eilífa nád yfir mér upprennandi, nýa og freska! Og þegar þessi náttúrlegu himintúnglin allra sídast mínum sjónum hverfa, þá bid eg mig uppljóma megi sú blessada fegurdar sól, minn Endurlausnari! á þeim óendanlega gledinnar degi. Amen.

## Fimtudags Kvøldbæn.

Gjædskuríki himneski Gud og Fadir! sem á þessum vikunnar degi dásamlega skapadir fugla loptsins og fiska sjáfarins, oss mønnum til uppheldis og næríngar, lofud og háleitlega vegsømud sé þín fødurleg nád og gjædska, sem daglega elur ønn fyrir mér aumri manneskju. Lofadur vertu Drottinn, minn Gud! fyrir þína

vernd og vardveitslu yfir mér, á þessum degi. Gud géfi, ad eg í dag hefdi breitt eptir fuglunum, sem ætid med sínu kvaki, sýngja lof sínum skapara og forsorgara, en því er midur, ad eg hefi látid mig, enn í dag, flækja og fánga í neti syndarinnar. Nu eru ei ønnur mín úrrædi, enn kvaka til þín, gjædskuríki Herra! ad þú viljir þar úr greida, og fyrirgéfa mér allar mínar ávyrdíngar í Jesú nafni, og taka mig nú ad þér í nótt, til allrar fødurlegrar umsjónar, svo sá vondi óvin nái ekki framar til mín. O þú, sætasti Endurlausnari minn! þú ert þad blessada lífsins tré; feginn vil eg nú á þessari nóttu, fá ad hvíla mig undir þess skugga. Allir fuglar sem í dag hafa á fløkti verid, hvørr í sinni átt, eru komnir í sín fylsni. Æ, minn lífsins Herra! hvar skal nú sál mín í nótt sér adhalla, svo hún í myrkrum þessum óhult verdi, annarsstadar enn undir miskunarvængjum þínum; þar vil eg nú hvíla í nótt, þar vil eg hælis leita, hvad sem mér áliggur. O, minn Gud! eins og þú hefur géfid fuglunum til verndar sitt flug, og umgyrdt fiskana í sjáfarins og vatnanna djúpi, svo ummúra þú mig nú einnig, líknsami Fadir! med vernd þinna heiløgu Engla, bædi í nótt og alla tíma. Þó

minn þreittur líkami hvílist í nótt, og viti ekki af sér, upplyptir þó sálin mín sér til þín, hvar hún alleina finnur sér hvíld, og vonar ad hún um sídir muni til þín uppflogid géta, og þar óhult um alla eilífd hjá þér vera. Bænheyr þú mig Drottinn minn! fyrir þíns blessada nafns sakir. Amen.

## Føstudags Kvøldbæn.

Eilíft lof og heidur sé þér, Drottinn Gud Almáttugur! fyrir þessa dags ljós, sem nú er undirgeingid, á hvørjum þú, í fyrstu skøpun, skapadir allar ferfættar sképnur á jørdunni, og seinast manninn, eptir þinni mynd, hvørjum þínum sképnum þú hefur ætíd sídan vid makt haldid, manninum þó allra helst, sem þú elskar mest; þad hefi eg aumur madur af þér reynt, hvørn þú sjálfur verndad hefur frá øllum voda og haska, og líka látid þínar sképnur, á jørdunni, þjóna mér og styrkja mig, bædi til míns erfidis og uppheldis! lofad sé þar fyrir, ad eilífu, þitt dýrdarfulla nafn! En Gud nádi, hvørnig eg hefi lifad í dag! allar sképnur hafa vardveitt sitt stand, sem þær í settar voru, nema eg, syndug manneskja. Nautid þekkir sinn herra, og Asninn jøtuna

síns herra, en jeg hefi látid svo í dag, sem jeg ekki þekkti þig, hvørjum þú þó hefur gjørt þig allra kunnugastann. Þess vegna bid eg audmjúklega, ad meira megi nú, fyrir þínu blessada augliti, þad krøptuga píslar verk þíns Sonar Jesú Krists, sem hann fullkomnadi á þessum vikudegi, en synda verkin mín í dag! Sjá þú, minn Gud! eg er sem annad brothætt leirkér, þú veitst af hvørju verkefni eg er gjørdur; hvílíkur háski væri mér ekki búinn á þessari nóttu, nema þú sæir aumur á mér, og ummúradir mig med heiløgum hersveitum þínum. Vernda þú mig, Drottinn! nú í nótt, og alla mína, mitt heimili og sképnur, sem þú hefur mér géfid, frá øllum voda og háskasemdum. Þú hjálpar bædi mønnum og fénadi, þad er þér, Drottinn minn! eitt dýrdar tilefni, ád þú verndar og vidheldur øllum þínum handaverkum, því ei hefur þú þínar sképnur þar til skapad, ad þú viljir sídan útskúfa þeim, heldur til ad gjøra þeim gott. Nú er eg, Drottinn! verk þinna handa, til þín er mér varpad, frá módurlífi, æ! yfirgéf þú mig ekki í nótt, minn Gud! heldur láttu mig hafa skjól hjá þér, svo mun eg óhræddur og andvaralaus sofa. Þó minn

líkami sé af jørdunni, eins og þeirra skynlausa sképnanna, þá er sálin mín, hvør ed aldrei sefur, himnesk; láttu hana í nótt, sína umgeingni hafa hjá þér, medan mitt líkamans hreysi hvílist á jørdunni. O minn Gud! ætíd, þegar røkkvar og nóttin kémur, má eg minnast á minn uppruna og endalykt, jeg er af jørdu kominn, á hvørju kvøldi leggst eg nidur á jørdina, sem í fadm minnar módur. O, þú himneski Fadir! géf mér í nótt og alla tíma, ad hvílast í þínum nádar fadmi, og seinast, þegar kvøld minna lífdaga er komid og jeg leggst til hvíldar í grøfinni, þá tak þú vara á beinum mínum, eptir lofordi þínu, en geymdu sálina hjá þér, þar til þú aptur, á eilífdarinnar dags morgni, hvørutveggja samteingir, og í eilíft líf innleidir. Þetta veittu mér, miskunsami Herra! fyrir þíns nafns sakir. Amen.

## Laugardags Kvøldbæn.

Þakkir og lof sé þér ad eilífu, þú Drottinn Gud! almáttugi Kóngur dýrdarinnar! hvør mig á þessum degi og umlidna viku miskunsamlega geymt hefur frá øllum lífs og sálar háskasemdum, svo eg hefi enn nú frjáls og heilbrygdur,

aflifað þennann dag, og geng nú til hvíldar; hvað mig minnir á þína hvíld, minn Guð! á þessum degi, að aflöknu sköpunarverkinu. Þó hefur þú ekki verið, enn í dag, iðjulaus í góðgjørðum þínum við mig. Lofaður sértu, Drottinn! og blessað sé þitt heilaga nafn! Nú kasta eg mér fram á þína fótskør, minn Herra! og bið þig með hjartans ángri, að fyrirgéfa mér allar mínar syndir. Þó minníng þinnar blessuðu hvíldar hafi í dag átt að ver í mínu hjarta, þá hefi eg þó ekki hvílst frá syndum og ránglæti. Á umliðnum sex døgum gjørðir þú sjálfur þín dásamleg handaverk, hvør þú sjálfur áleitst að vera góð, en hvíldist á hinum sjøunda. En Guð náði! eg sé nú, að øll mín verk, þessa viku, hafa verið ill, og frá hvørjum eg ekki heldur hvílst hefi í dag. Þessvegna, minn Drottinn! er mín sála næsta þreitt orðin og ørmagna, og skríður því, á þessu kvøldi, að forþénustu skjóli Jesú Kristi, sér þar hvíldar að leita. Æ! Drottinn minn! taktu á móti henni, svo hún megi nú fá hvíld og endurnæríngu hjá þér í nótt; láttu einninn mitt synduga hold, ná sinni náttúrlegu hvíld á þessari nóttu, og varna øllu illu að nalægjast mínu legurúmi. Þú, Drottinn minn! hefur af líkn þinni nótt-

ina til hvíldar skapad, bædi mønnum og sképnum, géf ad engin freisting lífs né sálar fái, nú í nótt, raskad minni hvíld, og í því trausti leggst eg nú til hvíldar, því eg veit, ad þú, Ísraels verndari, hvørki sefur né sifjar; og ad sídustu fel eg þinni nádarríkri tilsjón, mína sál og líkama og allt þad mér tilheyrir; hvíli þín miskun og blessan yfir því øllusaman; láttu mig svo, eptir þessa næturhvíld, komandi hvíldardag, þér til dýrdar gudrækilega halda; og ef þú mig svo lengi lídur, þá lát mig í þínum ótta, minn Gud! nýa viku aptur uppbyrja og þig jafnan fyrir mínum augum hafa; svo þá mín sídasta daudans nótt yfir mig kémur, mætti holdid mitt hvílast í von gledilegrar upprisu, og sídan í himnaríki eilífann hvíldardag halda. Heyr mig myskunsamlega, Drottinn minn! lofadur og vegsamadur ad eilífu. Amen.

# IV.

# Hátída-Bænir.

## Á Sunnudaginn fyrstan í Adventu.

Ó! þú nádarríki Jesu! sem kominn ert til ad uppleita, og hólpid ad gjøra þad sem tapad var: vér þøkkum þér, ad þú hefur látid oss aptur fá ad lifa þessa heiløgu tíma undir þinni nád og vardveitslu. Æ! géf oss krapt þíns heilaga Anda, ad vér fáum brúkad þá í þínum ótta, med heiløgum hugleidíngum til vorra sálna uppbyggíngar. Þú eilífi sonur Guds, þú sem verid hefur, ádur enn grundvøllur veraldarinnar var lagdur, þú ert kominn í holdid, ordinn sannur madur, svo þú feingir gjørt oss farsæla og sáluhólpna. Søkum þess þúnga syndafalls gátum vér ekki til þín komist í himininn, þess vegna komst þú til vor á jørdina, uppá þad þú fengir alla oss innleidt til sáluhjálparinnar. Vér vorum ordnir, fyrir

syndina, framandi, já, fángar, og Guds ó-vinir, enn fyrir þína allraheiløgustu híngad-komu bætist úr því øllu saman. O! hvílík nád! hvad óumrædileg elska! þinna vegna, ó Jesú! eiga þeir framandi ad verda vinir, fángarnir endurleystir, óvinir Guds hans elsku-legir, syndararnir børn, og þeir føllnu aptur vidreistir. O! þá heiløgu tilkomu, fyrir hvør-ja vér, til dauda fordæmdir, fáum lífid, vér sem ádur vorum fallnir úr nádinni, verdum fyrir þig med dýrd og æru kórónadir; því þad er vissulega satt, og eitt dýrmætt verdugt ord: ad Kristur Jesús er kominn í heiminn, synduga menn sáluhólpna ad gjøra. Elsku-legasti Jesú! gjør oss einnig sáluhólpna, leid oss einnig í þitt fagnadar ríki; géf oss um þennan heilaga Adventu tíma, adgjætin og hlýdin hjørtu, svo vér heyrum þitt heilaga ord med kostgjæfni og andakt, vardveitum þad í vorum hjørtum og medtøkum þad í trúnni, vøxum í þinni þekkíngu og elsku, jafnvel á þessum heløgu døgum, og sýnum í voru líf-erni ávexti trúarinnar, sem eru bindindi, aud-mýkt, hógværd, hlýdni, gudrækni; svo þín tilkoma meigi einnig verda oss, sáluhjálpleg og heilsusamleg tilkoma. Æ! vardveit oss,

ad þad ekki kunni um oss ad segjast: hann kom til sinna eginn, enn hans eginn medtóku hann eigi. Æ Drottinn Jesú! vér tøkum vid þér í trúnni, vér elskum þig, vér heidrum þig, vér fylgjum þér eptir. Kom hér inn, þú blessadur af Drottni! hvar fyrir stendur þú úti? vér høfum fyrir þína nád, tilreidt þér vor hjørtu; kom í vor hjørtu, vér viljum þig, sem vorn einka Endurlausnara, heilsugjafara og sáluhjálpara, í trúnni umfadma, þína forþénustu og réttlæti oss tileinka; kom í vor hjørtu, af elsku til þín viljum vér gjarnan fordast allt heimsins barna ædi og lystisemdir, já, syndir og illgjørdir, svo þú eina verdir í vorum sálum búandi. Æ! bú þú í oss, helga þú oss þér, vidhald þú oss í þinni nád! vér ydrumst vorra drýgdu synda og leitum nádar í þér; því munu þær oss ei framar fordæma, því ad, ef Sonurinn leysir oss, þá erum vér sannleystir; sé Gud med oss, hvør kann þá ad vera ámóti oss? O Jesú! þú komst sem konúngur; æ! ríkþví í vorum hjørtum, svo syndin géti ekki framar verid í þeim ríkjandi. Þú komst réttlátur; æ! gjør þú oss réttláta, og géf oss klædi þíns réttlætis! Vér gledjum oss í Drottni, og vorar sálir eru gladværar í vorum Gudi, því hann

hefur klædt oss klædum hjálprædisins, og prýdt oss med møttli réttlætisins. Þú komst fátækur, ad þú fengir audgad vorar sálir, audgád oss í trúnni og himneskum gjædum. Þú komst lítilátur; æ! gjør oss lítiláta, svo vér af þér lærum lítilæti og hógværd, og audsýnum þad sama í voru líferni, vid øll tækifæri. O þú konúngur dýrdarinnar! inngakk um dyr vorra hjartna; sjá, vér opnum þér þær, fyrir þinn krapt; stjórna oss framvegis med þínum heilaga Anda, svo vér megum verda þinn bústadur og musteri æfinlega, allt til vorra sáluhjálplegu endaloka. Amen, ó Jesú! Amen.

## A Jóladaginn.

Þetta er sá dagur, hvørn Drottinn gjørt hefur, látum oss á honum fagna og gladir vera! O Drottinn! hjálpa þú, ó Drottinn! lát þad vel lukkast; lofadur sé sá, sem kémur í nafni Drottins! upp vorar sálir og brúki þessa hátíd til Guds dýrdar og sinnar uppbyggíngar, og segi: ó þú heilaga þrenníng, Fadir, Sonur og heilagur Andi! Æ! ad allir vorir blóddropar væru túngur, med hvørjum vér prísad gjætum þína elsku, nád og miskunsemi! Gud er kjærleikurinn, þad vidurkénna vor hjørtu og sinni á

þessari heilögu hátíd. Þín elska hefur medal uppfundid, til ad fá mennina til nádar tekna, hvört ed enginn Engill né madur hefdi gétad upphugsad: ad midpersóna Guddómsins skyldi madur verda, til ad helga og hreinsa aptur þar med mannlega náttúru. O þú ástúdlegi Jesú! sé þér sagt eilíft lof og þakklæti, fyrir þína holdg, an og híngad fædíngu; þú varst manns barn, svo ad vér mættum verda Guds börn; nú er hátt upphafin mannleg náttúra, þú hefur sameinad hana þínum Guddómi, og innleidt hana í samkvæmi heilegrar þrenníngar; ó þá elsku! ó þá nád! svo sannarlega sem mannleg náttúra er sameinud þeirri Guddómlegu, svo sannarlega er milli Guds og manna ákomin eilífur vinskapur, eilíf forlíkan, eilífur fridur, eilíf elska; þar Gud álítur oss í sínum syni, þá gétur hann ei annars enn verid oss nádugur; hafi hann ekki þyrmt þessum elskulega, heldur géfid hann út fyrir oss alla, því skyldi hann þá ei géfa oss alla hluti med honum? nefnilega: fyrirgéfníng syndanna, réttlæti, frid, líf og sáluhjálp. O þá miklu elsku Jesú! sem vildi fædast úngbarn, svo hann helgadi vora saurugu fædíngu, hann vóx ad aldri og virsku, svo hann helgadi vora æsku.

Velkominn, gódi géstur! hér, sem glæpamenn ei forsmádir, ofan þú stéig í eymd á jørd, æ sé þér lof og þakkargjørd.

O vor elskulegasti sálar vinur! vor bródir! þig høfum vér nú hjálpara í hørmúngunum, Lausnara í lídununum, Sáluhjálpara þegar syndin hrædir, adstod í naudunum, lífgjafa í daudanum. Þú ert vort ljós, sem upplýsir oss, vegurinn sem leidir oss til Fødursins, sannleikurinn sem frædir oss, lífid sem lífgar oss; þú ert vort réttlæti, sem gjørir oss réttláta og sáluhólpna, vor ædsti prestur, sem fyrir oss bidur og blessar oss; offurlamb fyrir vorar misgjørdir, fullkomin borgun fyrir vorar yfirtrodslur. O þú verdugi heilagi Andi! hvad mikil er þín elska, ad þú létst boda oss þessa huggun, þessa gledi, þetta hjálprædi. Vér føgnum af innsta grunni vorra sálna á þessari heiløgu hátíd, og segjum: vor Jesús er vor, hans forþénusta er vor, hans himin er vor; þetta barn er oss, oss er þad fædt! þessi sonur er oss, oss er hann géfinn! oss hefir hann líka afrekad og géfid nád Guds, barna rétt og eilífa erfd, sem oss er geymd á himnum. O Jesú! hvurn vér í anda sjáum og skodum, liggjandi í stallinum,

hvad elskulegur ertú! hvad ástudligur ertú! æ! veit oss þína nád, ad vér gleymum þér aldrei framar, heldur høfum þig æfinlega í hjarta og munni, og oss fyrir augum; ó! vort hjálpræbi! helga þú oss, vér géfum oss þér á vald, med øllu sem vér erum og høfum! æ vor brúdgumi! umfadma þú oss! þér viljum vér lifa, þér viljum vér þjóna, af elsku til þín viljum vér afneita heiminum og allri vellyst þessa lífs; æ! lát vor hjørtu vera þína vøggu, þinn bústad í tíma og eilífd; innlæs oss þinni elsku, og vardveit oss í henni, svo vér í þér hafa megum rósemi, frid, huggun, hæli og hjálp vorra sálna. Nú gløtumst vér ekki, þar Jesús er madur fæddur; trúum vér á hann, munum vér ekki fortapast, heldur hafa eilíft líf. Gud er vor vinur, þar vér erum í Jesú fyrir trúna, og þared Jesús lifir í oss; daudann óttumst vér ekki, því í honum høfum vér lífid; ekki samvitskunnar ákløgun vegna vorra synda, því Jesús er vor Talsmadur.

Hjartans brúdgumi huggun trú, hæli, lífid og gledin, þú, kvistur af Jakobs kominn rót, kjærsti Jesú, vor heilsu bót! hvad villtu af oss heimta hér? hvad skulum vér nú bjóda þér?

Fjør, sál, og andi fórn sé þér, færd til eign:

ar, já, allt hvad vér, erum og høfum, þitt sé það, þú hefur sjálfur útvegað; géf oss að stunda dáð og dygd, dofni aldrei vor svarin trygð.

Heyr oss, ó Jesú! Amen.

## A seinasta dag Arsins

Hvørsu skulum vér Drottni endurgjalda alla þá gjæðsku og trúfesti, sem hann hefur audsýnt oss? Drottinn hefur mikla hluti vid oss gjørt, þess erum vér nú gladir. O þú þríeini Guð! Fadir, Sonur og heilagur Andi, svo tala nú vorar af þinni náð sig gledjandi sálir, þegar vér enn þá undir þinni vernd og varatekt, høfum eitt ár farsællega til baka lagt. Æ Guð! hvað kostugleg er þín gjæðska, að mannanna børn mega óhult búa undir skugga þinna vængja? þau verda drukkin af nægdargjædum þíns húss; þú drykkjar þau með sælgjæti, sem ødrum straumi, því hjá þér er sú lifandi uppspretta, og í þínu ljósi sjáum vér ljósið. Vor Guð! dagarnir ársins eru margir, þó eru þínar velgjørdir fleiri; stundir og mínútur ársins má telja, en þínar velgjørdir, sem þú hefir audsýnt oss, eru óteljandi. Vér þøkkum þér, að þú hefur á þessu ári látið prédika oss þitt heilaga orð hreint og klárt, og í því sýnt oss veginn til himinsins og vorrar eilífu heilsu; æ! inn-

sigla allt þad vér af því heyrt høfum í vorum hjørtum, og géf oss þinn heilaga Anda, ad vér eptir því løgum vort líferni; vér þøkkum þér, ad þú í þinni heiløgu Kvøldmáltíd hefur mettad oss og drykkjad med þínum heilaga líkama og blódi! æ! lát þad verda oss til trúarstyrkíngar og lífernisbetrunar; vér þøkkum þér, ad þú hefur oss optlega syndirnar fyrirgéfid, og afvendt þeirra verdskuldada straffi; æ! géf oss orku, svo vér á tilkomandi ári vørumst þær, og drýgjum þær ei framar vísvitandi; vér þøkkum þér, ad þú hefur blessad vora stétt og stand, veitt oss fædi og klædi, géfid oss heilbrygdi, varnad óláni, mýkt vort mótlæti, álitid oss nádarsamlega í vorri eymd. Þú hefur vardveitt oss vid vorum óvinum, sem alltumkríng hafa umsetid vorar sálir; þú hefir heyrt til vor í neydinni og lofad bænum vorum ad þreyngja sér gégnum skýin allt ad þínum tróni; þú hefur í ángistinni sendt oss hjálp frá þínum helgidómi, og styrk frá Síon; þú hefur úthellt þinni blessan yfir oss, þitt andlit ekki fyrir oss byrgt, þá vér hrópudum til þín. Þú, elskuríki Fadir! hefir oss þín børn, leidt þér vid hønd, þú voldugi Kongúngur! hefur oss, þína undirsáta, móti vorum óvinum forsvarad; þú trúfasti Hyrdir! hefur

oss, þínum saudakindum, í grænum haga á beit haldid; þú hefur oss lifandi vidhaldid, þar sem hinir adrir fóru ofan í grøfina; þín gjædska og trúfesti hefur frá upphafi ársins, til enda þess, leidt oss á øllum vegum. Þinn vísdómur hefur leidbeint oss, þín elska hefur hulid oss, þín hjálp hefur endurnært oss, þín nád hefur vidhaldid oss, þitt almætti hefur oss í øllu hjálpad, þín ørláta føðurhønd hefur allt géfid oss, þitt alltsjáandi auga hefur ad oss gjætt, og vardveitt vorn inngáng og útgáng, svo ad oss ekkért íllt hendti. Fyrir því sjáid og smakkid, hvad gódur Drottinn er, og hvad mikid gott hann hefur gjørt vorum sálum! Hafir þú oss á stundum reyna látid margt þúngt mótlæti, hefur þú þó aptur hresst oss; hafi stundum margt þúngt legid á vorum hjørtum, hafa þó þínar hugganir endurnært vorar sálir; hafi oss opt verid háski og naud nærri, hefur líka þín hjálp verid oss nærri, og þinn Engill hefur vardveitt oss á øllum vorum vegum, og hrifid oss úr kverkum ljónsins. Æ vor Gud! fyrirgéf oss nádarsamlega allar syndir, æ! allar syndir, sem vér á þessu lidna ári drýgt høfum, æ! straffa oss ekki fyrir þær á því eptirkomandi ári, heldur fyrirgéf oss þær, Jesú vegna.

Drottinn! minnstu ei á syndir vors úngdóms, og á vorar yfirtodslur, heldur minnstu vor eptir þinni miskunsemi, søkum þinnar gjædsku. Drottinn! Drottinn! svo endum vér þá árid, med þakklæti, lofgjørd og bæna ákalli, og biðjum þig audmjúklega: vertú einnegin vor verndari og nádugur Gud á því nýa ári, hald þinni hendi yfir oss, og lát oss þinni varatekt, þinni elsku og nád framvegis befalada vera, Amen.

## Versid.

Gudi sem gódur er, gjædskunnar fadir, þakkargjørd vøndum vér, velsemd audgadir; dásemdir hann, drýgir, og hjørtun kjætir, hann stillir hrygd og pín; hann allra barna sín, gódsamur gjæti.

## A Nýársdag.

Drottinn! Drottinn! miskunsamur, þolinmódur, mjøg líknsamur og trúr, þú sem ert frá eilífd til eilífdar, og hjá hvørjum engin umbreytíng er, né umskipti ljóss og myrkurs: sjá, undir þinni vernd høfum vér nú aptur eitt nýtt ár uppbyrjad. Drottinn! hvad mikil er þín gjædska, og mannanna børn meiga athvarf hafa undir skugga þinna vængja; þú gjørir þau drukkin af gjædanægtum þíns húss; brunn-

ur Guðs hefur vatns nægð yfirfljótanlega. Þetta allt höfum vér, vor góði Guð og Faðir! á umliðnu ári reynt, og því viljum vér nú byrja þetta nýa með því að andvarpa, biðja og ákalla. Drottinn! árla, strax í byrjun ársins viljir þú heyra vora raust, á þess fyrstu tímum viljir þú þar oðgjæta. Æ Drottinn! vér vitum ekki hvað á þessu nýa ári kann fyrir oss að koma, árið er lángt, dagarnir margir, mannleg eymd margvísleg, og ólukku tilfelli, sem mennina kunna að ramma, óteljandi. Því komum vér nú til þín, ó þú sterki og elskuríki Guð! og viljum strax í upphafi afhenda oss þinni náð og trúfesti; æ! þegar allt verður nýtt, landið að nýu uppljómast, sólin hærra stígur, allt með tíðinni með nýum kröptum endurlifnar; þá lát einnig þína gjæðsku og miskunsemi yfir oss nýa vera. Vér befölum vorar sálir í þína náðarríku föður vernd, varðveit þær frá syndunum, svo vér ekki flekkum þær með íllgyrnis yfirtroðslum. Drottinn Jesú! helga, svo og hreinsa þær með þínu heilaga blóði. Guð heilagi Andi! bú í oss, lát þær vera þín musteri. O! hvað blessað mun þetta ár verða oss, ef vér, ó himneski Faðir! blífum í þinni náð,

og lifum sem þín børn. O! hvad farsælir munum vér verda, ef vér verdum þér, ó Jesú! sameinadir. O! hvad fagurbúnir munum vér verda ad gánga, ef þú, verdugi heilagi Andi! býr í oss og stjórnar oss. Sé Kóngsins dóttir innvortis prýdd forkostulega, svo munum vér í þeim skrúda þér vel þóknast. Og svo sem þú híngadtil hefir géfid oss þá dýrmætu gjøf, líf og heilbrygdi, svo virdstu þeirri sømu, á þessu ári, sé þad þinn fødurlegur vilji og vorum sálum heilsusamlegt, nádarsamlega ad vidhalda, svo vér þess hæfari verdum, til ad þjóna þér og stunda verk vorrar køllunar. Enn skyldi þad þóknast þínu heilaga vísdóms rádi, á oss ad leggja sóttir edur sjúkdóma, þá vík ei frá oss; þegar vér hørmúng lídum, þá líkna oss; þó þú viljir vér skulum allt yfirgéfa, þá lát þó stund þinnar endurnæríngar yfir oss koma. Hald þinni hendi, Drottinn vor Gud! yfir þeim er oss vidkoma, og øllu sem vort er, vertú einn eldlegur múr um þad allt, sem um Elíam, vardveit oss allt um kríng sem hús Jobs, léna oss krapt þíns Anda, ad vér þetta ár verdum sanngudhræddir, og sannarleg Guds børn, ad vér séum andaktugir bidjendur, kostgjæfnir heyrendur og

gjørendur ordsins. Hjálp, ad á þessu ári megi þad heita um vort sálar ástand: þad gamla er hjálidid, allt er nýtt ordid: ad vér í oss finnum nýa laungun eptir þér, nýa elsku til vors náúnga, nýa gyrnd oss þér ad sameina, og í þinni sameiníngu ad blífa. Æ! helga oss alla saman, svo vor andi, ásamt sálum og líkømum, megi óstraffanleg haldast, allt til þess dags Jesú Kristi; géf oss nýtt kapp í vorum kristindómi, ad vaxa og aukast í því enu góda. Blessa vort stand og erfidi, blessa vorn útgáng og inngáng, géf oss þad þín blessunar hønd hefur oss ákvardad! Lát oss einnig vid uppbyrjun þessa árs, þad hugleida, ad líka muni adkoma þad sídasta ár vors lífs, svo vér alltíd megum vidbúnir vera, í trú og ydran blífa, vora lampa logandi og vorar lendar umgyrdtar vera láte, til ad fagna þér, ó vor brúdgumi og nádugi Gud! og inngánga til þíns ríkis, sem þú hefur oss frá upphafi fyrirbúid. Amen.

## Versid.

Eptir þínum, oss géf, vilja Anda nýan, vilja og dug, því ad hlýda er ædst áskilja, ordin þín, med réttum hug; svo vor andi, sál og líf, séu

falin þinni hlíf, þíns góða Anda gott musteri, gjørist þau og alltíd veri.

Um árstíd þeísa lát oss lifa, Lausnarinn trúr í verndan þín, þínum høndum oss innskrifa, øll svo flýi hætta og pín; hjálpa oss í hvurri neid, hjálpa oss í vorum deyd, svo fulltrúa nær fjørid dvínar, flýum vér á nádir þínar.

## A Føstudaginn Lánga.

O! þú elskuríki og ástúdlegasti Jesú! vér komum hér til þín, til þess ad yfirvega med hjartans andakt þína beisku pínu. AE!

Lát þína lídan megna, leida oss eptir þér, svo hédanaf hennar vegna, holds gyrndir fordumst vér, og aldrei gleymst oss géti þad, hvad miklu heilsu vorrar, hefur þú tilkostad.

O þú saklausa slátrada Lamb! þú hefur lidid, ad allar vorar, já allra manna syndir, sektir og misgjørdir, ránglætíngar og vondskur, voru þér uppálagdar og tilreiknadar, svo þú varst fyrir Guds dómi álitinn sem hinn mesti syndari, já, sem syndirnar sjálfar. Svo sem nú vorum syndum var varpad uppá þig, þú flekklausa Lamb! svo dundu líka vorar hegníngar yfir þig, sem vatnstraumar. I þínu

spámannlega frædara embætti hlautstú ad líða fyrirlitníngu, forsmán og lastyrði, en þó tvø-faldadist allt í þinni pínu; þá lendti ekki vid ákløgun og daudadóm, er þú hlautst ad mæta fyrir tveimur réttum, fyrir andlegum og ver-aldlegum, og verda fyrir bádum til dauda dæmdur, heldur, eptir þad þeir fengu sinn vilja fram, og daudadómurinn var yfir þér uppsagdur, hlautst þú grimmustu píslir ad líða á þínum líkama. Þá var þinn heilagur lík-ami særdur, húdstrýktur; sundurkrassadur, og alblódgadur. Skodid, þér mannanna børn! hvurt nokkur písl hefir nokkurntíma þvílík ver-id, sem píslir vors Jesú: hans høfud var med þyrnum kórónad, hans líkami alblódugur, og rétt sundurrifinn undir svipunum járnsnúnum; hans hendur og fætur voru á krossinn negld-ar, sídan med spjóti gégnumstúnginn, svo hann mátti med sanni segja: eg em madkur og ekki madur. En ei ad eins var hans heilagur líkami svo aumkunarlega útleikinn, heldur hlaut hann og ad líða sárustu kvøl á sálunni, hvør-ed hrygg var allt til dauda; á hana rédust reidinnar fossføll og ángist Helvítis, svo ad hann hrópadi á krossinum: Gud minn! Gud minn! því yfirgafstú mig? hvaráeptir ad fylgdi

daudinn sjálfur. Þú Lambid slátrada! þetta hefur þú allt lidid og þolad oss til góda, oss til besta, oss til huggunar, oss til fridar, oss til endurlausnar, oss til heilsu, oss til sálu=hjálpar; því,

Ef kominn ei Kristur væri, kjærstur í þennan heim, og ekki á sér bæri, eymd í manndóm þeim, né vegna vorra synda, viljugur lífid mist, vér hefdum verid án enda, æ fordæmdir víst.

Enn nú, ef vér á þig trúum, og í trausti trúarinnar tileinkum oss þitt heilaga blód, þá verdum vér ekki fordæmdir, vér verdum fyrir þig sáluhólpnir; ef vér fylgjum þér í heiløgu framferdi, og berum rétta trúarinnar ávexti, þá tøpumst vér ekki, heldur munum vér fyrir þig hafa eilíft líf. O vor Jesú! lát þína beisku pínu æfinlega vera oss fyrir augum, og í vorum hjørt=um, svo vér oss vid hana huggum, verdum fyrir hana gudhræddir, fyrir hana réttlátir, og líka svo fyrir hana sáluhólpnir. Lát oss engan dag lifa þann, ad ekki sé þín blódug mínd oss fyrir augum; lát þína pínu, þitt blód þínar undir, innskrifadar standa á vorum høndum, já, í vor=um hjørtum, svo vid hvørn andardrátt sé ekkért annad enn Jesú pína, Jesú daudi, Jesú blód, í vorum þaunkum, svo vér fyrir þad verdum

heiminum fráskildir, helgadir, hvítfágadir og hreinsadir. Vor Jesú! líka sem þín pína hressir, gledur, huggar, uppvekur og uppbyggir oss, svo gjøra þad líka svo þín sjø ord á krossinum. Æ! fyrir oss hefur þú bedid: „fyrirgéf þeim!" fyrirgéf þessum sálum, þad sem þær hafa móti þér gjørt. Fyrir oss hefur þu kallad: „Gud minn! Gud minn!" því yfirgafstú mig? svo vér aldrei, ekki í krossinum, ekki í naudunum, ekki í daudanum, ekki fyrir dóminum, ekki á efsta degi, ekki hér tímanlega, ekki þar eilíflega, yfirgéfnir verdum. Fyrir oss hefur þú sagt: „mig þyrstir!" Æ! géf þú, ad vér þig aptur í trúnni umfødmum, eptir þér þyrstir þráum, og eptir þér þreyum, sem hjørtur eptir fersku vatni, í þinni elsku oss gledjum og endurnærum. Fyrir oss hefur þú umhyggju borid, þá þú sagdir vid Jóhannes: „þad er þín módir." Þegar vér einninn støndum undir krossinum í hørmúngunum, af øllum mønnum yfirgéfnir, eins og María, þá munt þú oss hjartanlega ad þér taka, þig yfir oss miskuna, fyrir oss umhyggju bera, oss hjálpa og nádugur vera. Æ! lát oss í andarslitrunum, í daudanum, þá røddu heyra: „í dag skaltu vera med mér í Paradís." Fullvissa oss þessa medan vér heilbrygdir lifum, tala þad til vor á

vorri banasæng, lát þad á oss fullkomnast eptir daudann. Fyrir oss hefur þú talad: „þad er fullkomnad;" allt var gjørt, sem vér hefdum átt ad gjøra, allt lidid, sem vér hefdum átt ad líða. Nú er oss afrekud heilsa, líf, fridur, føgnudur, huggun, sáluhjálp, kóróna lífsins og þad hvíta klædid. Já, þitt sídasta ord á krossinum skal líka verda oss huggunar- og gledi-ord: „Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda;" svo viljum vér bidja; svo viljum vér eptir þér hafa, sem þú hefur fyrir oss haft. Amen!

## Versid.

Hédan þá skulum halda vér, heim í þíns ríkis farsældir, úr landi ánaudanna; bót vor og prýdin besta sé, blód þitt og hreina sakleyse, ad fáum frelsun sanna! kórónu þeirri krýndir þá, kunnum sannlega stadist fá, fyrir þíns Fødurs tróni, og þig um eilífd umgángast, um eilífd þér ad sameinast, á dýrdar dýrstu fróni.

## A Páskadaginn.

Med føgnudi sýngja menn út af sigrinum í hýbýlum réttlátra: hægri hønd Drottins er upphafin, hægri hønd Drottins heldur sigrinum. Upprisni Jesú! voldugi sigurhøfdingi Jesú

Kristi! Sigrari daudans, sterki Samson! af þinni uppriðu upprennur nú í vorum hjørtum einskjær føgnudur, er vér nú, fyrir þína náð fáum að lifa þessa heiløgu hátíð, og segjum með beigðum knjám, og samanløgðum høndum: Guði séu þakkir, sem oss hefur sigurinn géfið, fyrir vorn Drottinn Jesúm Kristum. Jesús er upprisinn frá dauðum, það er gleðilegur boðskapur; Borgunarmaðurinn er úr fángelsi grafarinnar laus látinn, fyrir því hlýtur syndin afmáð að vera, Guð forlíktur og skuldin borguð. Hvør vill nú fordæma? Kristur er hér, sem dáinn er, já, ennframar, sá upp er vakinn, hvør eð situr til hægri handar Guði og biður fyrir oss: Jesús hefur tekið maktina frá dauðanum, og í ljós leidt lífið og ódauðlegleikann. O Jesú! vor kjærsti vinur! þín upprisa færir oss þrefalda huggun: vér segjum á þessari hátíð: Jesú upprisa er vor sigur, Nú géta ekki vorar syndir fordæmt oss, því fyrir Krists blóð og undir, og fyrir hans upprisu, høfum vér fyrirgéfning allra vorra synda, hvað margar, miklar og þúngar sem þær vera kunna; her er ánægjanlegt lausnargjald, fullkomin endurlausn; í Kristó høfum vér endurlausnina fyrir hans blóð, sem er fyrirgéfning syndanna. Dauðinn gétur ekki skaðað oss, því Kristur hef-

ur daudann yfirunnid, og vorn dauda gjørt ad sætum svefni, já, ad burtfør til Fødursins; Satan er yfirunninn óvinur, þó hann grenja kunni, gétur hann oss ekki uppsvelgt; þó hann áklagi oss, þá bidur Jesús fyrir oss, og géfur oss sitt réttlæti, í hvurju vér verdum fyrir Gudi réttlátir og sáluhólpnir; helvíti hrædir oss ekki, því Kristur hefur leyst oss frá helvíti: hvør sem á hann trúir, sá skal ekki tapast, heldur hafa eilíft líf. O! einn gladan dag! O! einn fagnadardag! á hvurjum vér verdum um vora heilsu vissir gjørdir, og vor sáluhjálp stadfest. Jesús lifir, vér munum og lifa, hér í trúnni honum sameinadir, þar, í eilífri dýrdar prýdi. En framar segja sálir vorar, gladar og fagnandi í þeim upprisna Jesú: Jesú upprisa er vor upprisa. Sé høfudid upprisid, þá géta ei limirnir eptir ordid. Enn ei ad eins munum vér á efsta degi upprísa, sem allar manneskjur, heldur munum vér upprísa sem børn Guds, sem samarfar Jesú Kristí, fyrir hans forþénustu og fullnægjugjørd; þessvegna óttumst vér ekki grøfina, vér álitum hana sem svefnherbergi, sem módur kjøltu, sem stad vorrar hvíldar, í hvørjum vor heilsugjafari mun láta oss sofa, þángadtil

hann mun segja: rísid upp, þér daudu, og komid fyrir dóminn. O! þá miklu dýrd, hvørja vor Endurlausnari hefur oss afrekad! Upprisni Jesú! hvørsu kunnum vér nógsamlega þína nád og miskunsemi ad útbreida, vídfrægja og vegsama? O þú ómælilega elska, sem oss hefur géfid lífid og sáluhjálpina! nú er allt aptur gott ordid, sem aflaga gékk í Adams falli. Æ vor Lausnari! þín upprisa skal einnig vera oss krøptug huggun í vorum lídunum. Þú lást byrgdur í grøfinni, en dýrdlega gékkstú út af henni; þannig mun og lída nótt vorra lídana, og yfir oss aptur ljóma þín fagnadarnád, hjálpar- og endurnæríngar-sól. O Jesú! þú varst ei nema þrjá daga í grøfinni, svo er líka, eptir vorar hørmúngar, ákvardadur fríunarinnar dagur: eptir þau mædufullu mótlætínga ár, kémur þad fagnadarfulla lausnar ár; þú uppreist, hafandi forklárадan líkama; þín sára ør og naglaфør, voru ei framar blódug né kvalafull, heldur ljómandi sem sólin; svo munu og vorir líkamir, dýrdlegir og forklárадir verda, þegar þú munt uppvekja oss af duptinu; vér munum fá vorn fyrrverandi líkama, og vorri húd klæddir verda; líkamar þeir og limir, sem þér þjónudu, og þér voru helgadir, munu verda

hluttakandi himnesks ljóma og dýrdlegir. Já, þar þú, ó Jesú! lifir, þá høfum vér, þar sem þú ert, trúan og stadfastan vin, sem oss mun forsorga í lífinu, vidhalda í lídununum, gledja í hrygdunum, endurnæra í daudanum, vardveita í grøfinni og loksins til dýrdarinnar leida og kóróna. Amen!

## Versid.

Med því vor lifir Lausnarinn, ljúfur elskandi søfnudinn, hvad skyldum hryggvir vera? heims sælan þó ad flýi frá, fyrst sjálfur Jesús er oss hjá, þad skyldum þola og bera; hann nærir, huggar, verndar vel, vodalegt þó ad komi hel, sjálfur til sín oss tekur, þar sem hann lifir, loksins vér, limir hans verdum dýrdlegir, oss til þess upp hann vekur.

